# VERKALÝÐSBLAÐIÐ

ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

Málgagn Einingarsamtaka kommúnista (marx-lenínista)

15. tbl. 4. árg. 15. - 28. ágúst 1978 — 15o kr.

## 21. ágúst-hreyfingin:

Lesendur, mætum öll í allar baráttuaðgerðir 21. ágúst !

Kl. 16.30 : Dreifingarherferð í miðborginni, dreifing, merkjasala, sala á bæklingum, söngur.

Kl. 17.30 : Útifundur Samtaka herstöðvaandstæðinga við sovéska sendiráðið, Garðastræti.

Kl. 20.00 : Baráttufundur í Lindarbæ. Fjölbreytt dagskrá til kl. 0.30.

Framkvæmdanefnd 21. ágúst-hreyfingar.

## Vestmannaeyjar

# Útflutningsbanni aflétt

Verkalýðsfélagið í Vestmannaeyjum vað það félag sem lengst hélt uppi andófi til að ná fram kröfunni um óskertar vísitölubætur og til að berjast gegn fjöldauppsögnum og gegn því að kjör verkafólks yrðu skert t.d. með gengisfellingu. En eins og fram kemur í ályktun stjórnar- og trúnaðarmannaráðs félagsins sem birt er hér í blaðinu hefur félagið nú fallið frá yfirvinnu- og útflutningsbanni því sem þar gilti. Þar meta þeir stöðuna þannig að vonlaust sé fyrir félagið að standa eitt í baráttunni. Hér mun ekki fjölyrt um réttmæti þess mats en hins vegar má benda á að því fer fjarri að verkafólk í Eyjum standi eitt, því þorri launafólks í landinu styður kröfur þess einhuga. Hitt er svo annað mál og öllu alvarlegra að forysta ASÍ og Verkamannasambandsins hefur ekki einasta snúið baki við félaginu, heldur verið hemill á alla raunverulega baráttu þess.

Þegar útflutningsbannið var sett á, lét formaður Verkamannasambandsins, Guðmundur J. Guðmundsson mörg orð falla um áhrifamátt þess vopns sem auk þess byggi yfir þeim góða kosti að ekki þyrfti að "stöðva hjól atvinnulífsins". Verkalýðsblaðið benti þegar í upphafi á það hversu veik aðgerð útflutningsbannið væri og ekki bætti það úr skák að forysta Verkamannasambandsins þótti við hæfi að gefa undanþágur frá banninu flestum er um það sóttu. Framkvæmd innflutningsbanns á olíu og bensíni var ætlað að tryggja það að ávallt væru til í landinu nægar birgðir af þeim vökvum. Loks komu þeir Guðmundur J og Geir Hallgrímsson forsætisráðherra sér saman um að þau skilyrði sem ríkisvaldið skyldi uppfylla gegn því að Verkamannasambandið aflétti útflutningsbanninu væri að tryggja hag frystihúsanna í bili a.m.k. með auknum afurðalánum og greiðslu í Verðjöfnunarsjóð. - Var banninu því næst aflétt án þess að kosningakrafan "samningana í gildi" hefði á neinn hátt náðst fram.

Stéttsvikararnir í forystu ASÍ hafa meðvitað unnið að því að brjóta niður alla virka baráttu verkalýðshreyfingarinnar. Auk þess að binda hendur einstakra félaga og landshlutasamtaka með miðstýringu og rammasamningum hafa þeir markvisst unnið að því að gera stóran hluta alþýðufólks fráhverfan kjarabaráttunni. Þetta hafa þeir m.a. gert með því að leiða verkalýðshreyfinguna vanbúna út í stórorustur við auðvaldið og síðan svikið á örlagastundum. Þannig hafa þeir staðið að málum núna og fyrir vikið eru nú 16-1700 manns í Eyjum ýmist atvinnulausir eða sjá fram á atvinnuleysi í náinni framtíð.

Stjórn og trúnaðarmannaráð verkalýðsfélagsins í Eyjum telja að vonum að forystan hafi brugðist. Öllu réttara er þó að segja að forystan hafi hreinlega svikið og mun hún halda áfram að svíkja þar til baráttustefnan og baráttusinnar hafa náð forystu innan hreyfingarinnar. Það er hins vegar enn langt í land með að svo verði því völd stéttsvikaranna eru mikil.

framh.á bls.2



Sumarbúðir Verkalýðsblaðsins sunnanlands voru haldnar í Kjósinni. Hér sér yfir búðirnar. (Mynd : Vbl.)

## Sumarbúðir Verkalýðsblaðsins:

# Fjölmennar og vel heppnaðar

Síðastliðna helgi voru sumarbúðir Verkalýðsblaðsins haldnar. Að þessu sinni voru búðir á tveim stöðum á landinu, norðan- og sunnanlands.

Sumarbúðir Verkalýðsblaðsins voru nú haldnar í fyrsta sinn, og þrátt fyrir viðvaningshátt á sumum sviðum tókust búðirnar afar vel. Sumarbúðirnar voru sambland útiveru, íþrótta og pólitískra umræðna. Tvö efni voru til umræðu á búðunum og fluttar framsöguræður um hvorttveggja. Í fyrsta lagi var rætt um uppbyggingu kommúnísks flokks fyrir árslok 1979 og í öðru lagi var rætt um ástandið í heiminum, stríðshættuna og kenningu Mao Tsetungs um skiptingu heimsins í þrjá hluta, en sú kenning er mikil leiðbeining kommúnistum og allri alþýðu í að

framh.á bls.7

## Ávarp 21 ágúst-hreyfingar:

# 21.ágúst - gegn sovéskri heimsvaldastefnu

Tíu ár eru liðin frá innrás Sovétríkjanna og Varsjárbandalagsins í Tékkóslóvakíu. Landið er enn hersetið. Fimmtíu þúsund sovéskir hermenn halda landinu í greipum heimsvaldaseggja. Tékkar og Slóvakar berjast fyrir frelsi sínu. Þá baráttu viljum við styðja. Það verður gert á tvo vegu. Annars vegar með því að efla allt stuðningsstarf við Tékka og Slóvaka og dreifa upplýsingum til íslensks almennings um ástand mála þar. Hins vegar með því að berjast óvæginni baráttu gegn sameiginlegum óvini íslenskrar og tékkneskrar alþýðu, heimsvaldastefnunni, í þessu tilfelli einkum þeirri sovésku. Sovésk heimsvalda- og ofríkisstefna hlaut sína fyrstu eldskírn í Tékkóslóvakíu 21. ágúst 1968. Allar götur síðan hefur hún æ skýrar afhjúpað sjálfa sig sem hættulegasta óvin alþýðu heimsins við hlið Bandaríkjanna og helstefnu þeirra. Þessi tvö risaveldi færa þjóðir heims æ nær nýrri heimsstyrjöld, nýju uppskiptastríði. Gegn þeim fyrirætlunum dugir ekkert annað en öflugur stuðningur við allt andóf gegn þeim.

21. ágúst-hreyfingin hefur þennan tvíþætta tilgang. Hún var stofnuð til að gera 21. ágúst að baráttudegi fyrir stuðningi við frelsisbaráttu Tékka og Slóvaka og baráttudegi gegn allri heimsvaldastefnu, bandarískri og sovéskri.




21. ágúst-hreyfingin bauð Samtökum herstöðvaandstæðinga til samstarfs um aðgerðir 21. ágúst. Því boði var hafnað af miðnefnd SHA án nokkurra sannfærandi raka og vafalaust án vitundar og vilja félaga í SHA. Við hörmum þann klofning sem miðnefnd þannig hefur efnt til. Hann verður engum öðrum til gagns en óvini tékkneskrar alþýðu. 21. ágúst-hreyfingin lýsir samt sem áður yfir stuðningi sínum við aðgerðir SHA og þann grundvöll sem þær eru haldnar á. Um leið gagnrýnum við þann grundvöll fyrir að taka ekki upp einarða baráttu gegn stríðsundirbúningi risaveldanna tveggja. Við hvetjum því alla okkar stuðningsmenn og liðsmenn til að taka þátt í aðgerðum SHA fyrir utan sovéska sendiráðið 21. ágúst kl.17.30 og gera þær að öflugum aðgerðum gegn yfirgangi sovésku heimsvaldaseggjanna í Tékkóslóvakíu. Jafnframt höldum við okkar eigin aðgerðir til að efla þá baráttu sem þessum degi tilheyrir.

Félagar - stuðningsmenn! Gerum 21. ágúst að baráttudegi! Lifi frelsisbarátta Tékka og Slóvaka!

DAGSKRÁIN

Dagskrá aðgerða okkar er í meginatriðum svohljóðandi:

A. Um daginn er ætlunin að hafa mikla dreifingarherferð í miðbænum, þar sem liðsmenn hreyfingarinnar safnast saman með burst og dreifa dreifiritum og selja merki og bæklinga. Reynt verður að fá sönghóp til að vera á staðnum, og þyki ástæða til verður sitthvað annað á dagskrá. Tilgangur þessarar herferðar verður að vekja athygli á stefnumiðum okkar, hvetja fólk til að mæta

framh.á bls.2

VERKALÝÐS BLAÐIÐ



# Stjórnarkreppan

Það dylst engum að það er stjórnarkreppa á Íslandi. Hinir pólitísku fulltrúar borgarastéttarinnar koma sér ekki saman. Þeir deila um leiðir til að losna úr eigin ógöngum. Því hverjir aðrir en þessir sömu stjórnmálaflokkar og nú sitja á rökstólum (og svikráðum) hafa stýrt auðvaldssamfélaginu íslenska?

## ENGINN ÞEIRRA ER SAKLAUS

Hver af öðrum varpa flokkarnir af sér ábyrgðinni á bæði pólitísku og efnahagslegu kreppunni, sem tröllríður öllu þjóðfélaginu. Enginn þeirra vill kannast við að hafa átt þátt í að stýra kreppuþróuninni, allir kenna þeir hver öðrum um, eða skjóta sér bak við almennt ástand í heiminum.

Hér eru flokkarnir allir sekir. Enginn þeirra vill brjóta lög auðvaldsins, enginn þeirra tekur mið af grundvallarhagsmunum annarra en auðvaldsins. Allir leggja þeir á borð tillögur um lausnir, sem lúta sömu lögmálum og hið sjúka samfélag.

## LAUSNIN ER SÓSÍALISMINN

Kreppa er fastur fylgifiskur auðvaldssamfélagsins og allar tilraunir til að lækna kreppuna eru skottulækningar. Það eru aðeins lausnir til skamms tíma, en svo kreppir aftur að og þá hálfu verr.
En þessar lausnir eru allar fólgnar í því að byrðum erfiðleikanna er velt yfir á verkalýðinn og vinnandi alþýðu. Kaupið er lækkað, atvinna minnkar. Kommúnistar hafa sannreynt að eina lausnin á kreppunni er að útrýma auðvaldssamfélaginu, að brjóta á bak aftur það hagkerfi og þjóðfélagsskipulag sem er orsök kreppunnar og byggja nýtt samfélag sósíalismans.

## ALÞÝÐUBANDALAGIÐ OG SÓSÍALISMINN

AB skilgreinir sig sem sósíalískan flokk. Í predikunum flokksforkólfanna fer samt harla lítið fyrir sósíalismanum. Í hæsta lagi er orðið sósíalismi nefnt á tyllidögum og þá sjálfsagt vegna þess að þá er öruggt að enginn tekur mark á því. Tökum t.d. forkólfa eins og Ragnar Arnalds. fyrrverandi og Lúðvík Jósefsson núverandi formann. Hvenær berjast þessir menn fyrir sósíalisman? Eða hvar er sósíalíska fræðslan og uppörvunin? Í Þjóðviljanum - "málgagni sósíalisma og þjóðfrelsis"? Eða hvar er virkni flokksforlagsins Máls og Menningar í sósíalísku baráttunni? E.t.v. eru klám- og sorpritin það sem koma skal hjá þessum forkólfum, allavega hafa þau hlotið heiðurssess á mest áberandi stað í bókaverslun M&M.

Hvar er stuðningurinn við sósíalísku ríkin í starfi flokksins?
Er hann kanski að finna í stuðningi forkólfanna við Brésneff og morðhunda hans í Afríku og víðar, stuðningi við nýju keisarana í Kreml, sem troða undir járnhælum lýðréttindi alþýðunnar? Allavega er engan stuðning að finna við hina lýðfrjálsu Kampútseu, sem reif sig lausa úr klóm bandarísku heimsvaldastefnunnar og það þrátt fyrir að Sovétríkin unnu líka gegn alþýðu Kampútseu. Styður AB Kína? Nei.

Hvers er þá að vænta af AB? Þess sama og af hinum flokkunum. Stuðningi við ríkjandi skipulag og áframhaldandi starf forkólfanna að því að spilla fyrir og eyðileggja fjöldabaráttu alþýðunnar á öllum sviðum.

## HRÆÐSLA VIÐ AÐ FARA Í STJÓRN

Afstaða flokkanna til setu í ríkisstjórn mótast af ríkjandi efnahagskreppu. Það fýsir engann þeirra að sitja í stjórn, þegar verkefnið er að súpa seyðið af eigin verkum. Auðvaldið heimtar gróðann sinn og enginn flokkanna vill snerta við gróða auðvaldsins, heldur verða þeir að fara mismunandi leiðir ofan í vasa alþýðunnar eftir fé til að halda vélunum gangandi þannig að auðvaldið fái gróðann. Allir eru flokkarnir hræddir við fylgistap í næstu kosningum vegna óvinsælla aðgerða ríkisstjórnar, sem þeir eiga aðild að.

# EIK(m-l) Akureyri: Villur í starfinu

Stundum spyr fólk okkur félaga í EIK(m-l) á Akureyri: "Afhverju sést ekki meira til ykkar í starfi?" Það er jú verkefni kommúnista að taka þátt í stéttabaráttunni - berjast meðal alþýðunnar að hagsmunamálum hennar t.d. í stéttarfélögunum. Það er staðreynd, að Akureyrardeild EIK(m-l) hefur ekki eflst í samræmi við þróun samtakanna annars. Það hefur ekki fjölgað eðlilega í deildinni og það hefur ekki tekist sem skyldi að ná tengslum við verkafólk.

Að vissu marki er tiltölulega lítið fjöldastarf (þátttaka í beinni stéttabaráttu) eðlilegt ástand hjá EIK(m-l). Í uppbyggingu kommúnískra samtaka er rétt sambland af annarsvegar innra námi og styrkingu og hins vegar fjöldastarfi lykill að árangri. Á byrjunarstigi er nám félaganna mikilvægt og ytra starf er að miklu leyti bundið áróðri fyrir grundvallaratriðum marx-lenínismans. Þegar Akureyrardeild hefur gengið ver en samtökunum almennt að komast yfir byrjunarstig og þróast áfram er það vegna tvíþættrar villu, að okkar mati.

### 1) Villur í innra starfi deildarinnar.

Það er frumskilyrði þess að samtök geti rekið öflugt fjöldastarf, að þau hafi trausta innviði, að þau ræki vel innri uppbyggingu. Framan af starfi EIK (m-l) á Akureyri var lögð mjög mikil áhersla á fjöldastarf, svo sem þátttöku í kosningum í verkalýðsfélaginu Einingu, þátttöku í Baráttusamtökum launafólks, 1. maí starfi o.fl. - þ.e. þetta starf var meira en bolmagn deildarinnar leyfði og kom það niður á innri uppbyggingu hennar og allra samtakanna. Það kom líka fyrir að reyndir félagar fluttust frá Akureyri og olli það miklum búsifjum. Almennir félagar stóðu ekki nægjanlega sterkt til að geta haldið starfinu áfram, vegna skorts á pólitískri reynslu og þekkingu.

Í áðurnefndu starfi hafði EIK(m-l) nokkurt samstarf við Alþýðubandalagsfélagið á Akureyri, en á þeim tíma var það í hálfgildings vinstri andstöðu í verkalýðshreyfingunni. Samstarfið sýndi sig að bera árangur, m.a. í öflugum aðgerðum 1.maí 1975, en þar beygði Alþýðubandalagið sig og gekkst inn á grundvöll baráttusinna. Jafnframt þessu starfi þá vanrækti EIK(m-l) á Akureyri að afhjúpa endurskoðunarstefnu Alþýðubandalagsins. Margt stéttvíst fólk batt vonir við þetta samstarf og varð nonsvikið þegar upp úr því slitnaði, eftir að Alþýðubandalagið á Akureyri hafði hætt allri óþægð við flokksgorystuna sem og forystu ASÍ. Baráttusamtök launafólks, sem aldrei urðu baráttuhæf, sýndu vel að samvinna við endurskoðunarsinna í forystu Alþýðubandalagsins er dauðadæmd - það er aðeins sýndareining en engin baráttueining.

EIK(m-l) á Akureyri náði ekki að bregðast rétt við nýjum aðstæðum, afhjúpa falssósíalisma Alþýðubandalagsins og byggja upp fjöldastarf í samvinnu við heiðarlega baráttusinna hvar úr flokki sem þeir koma. Enn reisti deildin sér burðarás um öxl, reyndi að halda uppi samfylkingum og fjöldastarfi, sem þau höfðu ekki styrk til þess að leiða svo mynd væri á. Þegar þessar tilraunir tókust ekki sem skyldi tók við tímabil þar sem þátttaka félaga Akureyrardeildar EIK(m-l) í fjöldastarfi, en fyrst og fremst í verkalýðsmálastarfi, datt niður úr öllu valdi. Þetta hafði mjög slæm áhrif bæði meðal félaganna í deildinni og á öflun stuðningsmanna, t.d. meðal verkafólks.

Það varð einnig til þess að veikja deildina og minnka starfsgetu hennar að mestur hluti félaganna var menntaskólanemar, flest utanbæjarfólk, sem er aðeins virkt í bænum á vetrum, en slíkt skemmir samfellt starf að uppbyggingu deildarinnar. Nokkuð var um að félagar fluttust frá Akureyri. Allt þetta stefndi að því að gera starfið rótlaust og fálmkennt.

Höfuðgallinn í starfi deildarinnar er því þessi: Ekki hefur tekist að sníða starf og verkefni útávið eftir vexti og getu deildarinnar.

Samhliða þessu hafa tíðkast gallaðir innri starfshættir, t.d. röng dreifing verkefna meðal félaga, skriffinska og ónógt nám félaga í marx-lenínismanum og stefnu EIK(m-l).

### 2) Villa af hálfu forystu EIK(m-l).

Ónóg áhersla hefur verið lögð á uppbyggingu Akureyrardeildar og sömuleiðis hefur verið misræmi í því hversu stór deildin er og fæð reyndra félaga. Þetta leiðir til þess að forysta deildarinnar verður veik, en það leiðir aftur til þess að geta deildarinnar til að leiða öflugt fjöldastarf takmarkast. Þessi villa er því mest afgerandi og býr að baki öðrum villum í starfi okkar EIKara á Akureyri.

EIK(m-l) hefur komið auga á villur þessar og gerir sjálfsgagnrýni á þær. Það er fyrsta skrefið í leiðréttingunni.

# 21. ágúst LIÐSFUNDUR

Liðsfundur 21. ágúst-hreyfingarinnar var haldinn að Hótel Esju fimmtudaginn 3. ágúst sl. Fundasókn liðsmanna var léleg, sem sést best á því að þótt fundurinn væri fámennur, bættist hreyfingunni nokkur fjöldi nýrra liðsmanna. Ljóst er að eigi hreyfingin að ljúka ætlunarverki sínu, verða liðsmenn hennar og stuðningsmenn að taka sig mjög á og skila miklu meira starfi.

Á fundinum var einkum rætt um starfið og um hugsanlegt samtarf við Samtök herstöðvaandstæðinga (SHA). Félagi í hreyfingunni sagði m.a. frá miðnefndarfundi SHA, þar sem samstarfstilboði 21. ágúst-hreyfingarinnar var hafnað. Er nánar skýrt frá því annars staðar í blaðinu.

Hvað varðar starfið voru allir sammála um að stórátaks væri þörf. Komu fram ýmsar hugmyndir um hvernig efla bæri starfið, verða ýmsar þeirra framkvæmdar þessar síðustu vikur.

Á fundinum var einnig samþykkt viðbót við stefnugrundvöll hreyfingarinnar, n.k. aukakröfur sem fyrst og fremst er ætlað að vera ljós og eftirminnileg dæmi um yfirgang og ofríki sovéskrar heimsvaldastefnu víðs vegar í heiminum.

Loks var á liðsmannafundinum kynnt ný söngbók Október-forlagsins, "Bráðabirgðalög 1". Gerðu það félagar sem unnið hafa að útgáfu hennar. Var henni firnavel tekið, enda bætir hún úr brýnni þörf.

Næsti liðsmannafundur er 16. ágúst.

# Frá dreifingu

Til áskrifenda. Þeir áskrifendur sem ennþá hafa ekki greitt áskrift eru beðnir um að gera það strax. Við treystum á skilvísa greiðslu þína og byggjum fjárhag blaðsins á greiðslum áskriftar og lausasölu eingöngu. Við seljum ekki auðherrum afnot af blaðinu undir auglýsingar, né tökum við "aðstoð" frá auðherrum á annan hátt. Þess vegna er mikilvægt að þú greiðir áskriftina strax.

Til sölumanna. Herðið söluna. Bíðið ekki með að fara í söluferðir. Verkalýðsblaðið verður að ná til ennþá fleiri lesenda. Aukin lausasala leiðir til fleiri áskrifenda og það færir okkur nær því takmarki að gera Verkalýðsblaðið að vikublaði.

# Eritreu söfnun

100 ÞÚS.




FYRIR ERITREU

Glæsilegur árangur hefur náðst í Erítreu-söfnuninni.

Samtals hafa safnast 123.000!! Munar mest um sumarbúðir Verkalýðsblaðsins nú um Verslunarmanna helgina. Á sumarbúðunum fyrir sunnan söfnuðust 13.600 og á búðunum fyrir norðan komu inn 27.300.




Þessi mikli kippur í söfnunina kemur í kjölfar stórsóknar Eþíópíuhers sem reyndar hefur verið stöðvuð.

Þar sem enn er 1/2 mánuður eftir til 1. sept. þá setjum við markið hærra.

Náum 150.000 fyrir 1.sept.

# Útflutnings

framh.af forsíðu

Einstaka félög og landshlutasamtök hafa á undanförnum árum reynt tímabundið að auka sjálfstæði sitt og jafnvel reynt að semja sjálf. Flest hafa þau þó að líkum gefist upp og fallið aftur í faðm forystu ASÍ. Bæði vegna órofa andstöðu stéttasamvinnumanna í forystu félaganna og auðvaldsins sem vill fyrir alla muni tryggja áframhald ólýðræðislegrar miðstýringar innan ASÍ og Verkamannasambandsins. Þá er það ekki síður mikilvæg ástæða að félögin skortir þann pólitíska bakhjarl og fjöldagrundvöll sem er nauðsynlegur til að þau dugi sem baráttutæki gegn auðvaldinu. Þrátt fyrir að einstöku félögum hafi til þessa gengið illa að rífa sig frá ASÍ samningamakkinu er það alls ekki röng leið. Þvert á móti er það sú baráttuaðferð sem vænlegust er í dag. En það verður að vera tryggt að verkafólkið sé vel meðvitað um það fyrir hverju er verið að berjast og að það taki fullan þátt í því sjálft undir lýðræðislega valinni forystu.

Mikilvægast er að verkafólk treysti fyrst og fremst á eigin baráttu og geri sér fulla grein fyrir því að einskis stuðnings er að vænta frá forystunni í ASÍ og Verkamannasambandinu. Hún hefur fyrir löngu gengið stéttarandstæðingnum á hönd.

# 21. ág. ávarp

framh.af forsíðu

á fund okkar um kvöldið, og loks að hvetja sem allra flesta til að mæta í aðgerðir SHA við sovéska sendiráðið. Ætlunin er að þessi herferð hefjist kl. 16.30, og skorum við á sem flesta að mæta.

B. Um kvöldið verður baráttusamkoma 21. ágúst-hreyfingarinnar í Tjarnarbæ. hefst hún kl. 20.00. Á dagskrá eru m.a. þessi atriði:

1. Fundur hefst kl. 20.30. stundvíslega með setnigarávarpi form. 21. ágúst-hreyfingarinnar, Matthíasar V. Sæmundssonar.
2. Aðalræða kvöldsins verður flutt af tékkneskum flóttamanni, sem von er á erlendis frá. Komist hann ekki verður í þess stað flutt íslensk ræða um ástand og þróun mála á Tékkóslóvakíu.
3. Pétur Guðlaugsson mun syngja ljóð um baráttu Tékka og Slóvaka við eigið lag.
4. Samsöngur verður mikill og öflugur (takið með nýju söngbókina, "Bráðabirgðalög 1").
5. Nanna Atladóttir flytur ávarp um stríðshættuna.
6. Félagi í Kópavogshóp SHA flytur ávarp um baráttuna gegn hernum og NATÓ.
7. Sigurður Skúlason, leikari, stjórnar og tekur þátt í samlestri um innrásina 1968.
8. Dans

Kynnir verður Bríet Héðinsdóttir, leikari.

Framkvæmdanefnd 21. ágúst-hreyfingar



## Gerum stéttarfélögin að baráttutækjum

# Uppsagnir bitna harðast á konum

Konur í fiskiðnaði hafa ávallt búið við mikið atvinnu óöryggi. Ef ekki berst fiskur að landi þá eru það konurnar sem eiga að bera það sjálfar og eru sendar heim án launa. Kauptryggingin sem samið var um ´76 hefur bætt að nokkru þennan vanda fiskverkunar kvenna, en þó aðeins að litlu leyti, og ber að líta á það sem skref fram á við í baráttunni fyrir fullri atvinnu og gegn geðþóttauppsögnum, en alls ekki fullan sigur. Það sem fiskverkunarfólk þarf að berjast fyrir í dag er, gegn langtímauppsögnum frystihúsanna sem eru, að sögn atvinnurekenda vegna "rekstrarörðugleika, breytinga ofl." Nú hafa mörg frystihús á suðurlandi sagt starfsfólkinu upp. Verkafólkið veit að "örðugleikarnir" eru tilbúnir og eingöngu vegna sóknar auðherrana í meiri gróða, gengisfellingu og betl um lán og styrki frá hinu opinbera. Þetta á svo verkafólk og fjölskyldur þeirra að taka á sínar herðar, og ætlast er til að konurnar þegi vegna þess að þær hafi fyrirvinnu! Slíkum árásum á rétt, laun og kjör verkafólks verður að mæta með hörku og hafna algerlega öllum þvættingi um "vanda frystihúsanna" frá atvinnurekendum, fiskverkunarfólkið verður að setja fram skýlausar kröfur, sem tryggja réttindi þess á vinnumarkaðinum, og ganga út frá þeirra eigin hagsmunum en ekki atvinnurekandans. Samfara þeirri baráttu þarf að berjast gegn þeim öflum í verkalýðshreyfingunni sem ganga til liðs við og liggja hundflöt fyir atvinnurekendum og ríkisvaldi þeirra, og reyna að telja verkafólki trú um að "hagur atvinnurekenda sé hagur verkafólksins". Til að verkalýðsfélögin geti verið það afl sem færir baráttuna fram á við verður því samtímis að berjast gegn stéttasamvinnuforkólfunum innan hennar. Það eru konurnar fyrst og fremst sem þessar uppsagnir bitna á því þær eru í meirihluta í fiskvinnslunni. Þessar konur verða að hafna algerlega hugmyndafræði atvinnurekandans um að konurnar eigi bara að vera heima þegar honum hentar. Því verkakonur hafa sína eigin hugmyndafræði og kröfur sem er m.a. fulla atvinnu – gegn fjöldauppsögnum, og á það verða fiskverkunarkonur að leggja megin áherslu í dag og ganga hart fram til verks að berjast fyrir þeim, öðruvísi verður þeim ekki náð.

Fréttaritari.

# Krafa um gengisfellingu

Gengisfellingar eru algeng aðferð hjá auðherrunum þegar kreppir að til að velta byrðum kreppunnar yfir á herðar launafólks. Þær skapa engan auð "til að tryggja rekstur frystihúsanna" eins og oft er haldið fram í áróðri auðherranna heldur eru þær aðeins ein aðferð þeirra til að ná til sín auknum hluta af þeim gildisauka sem verkafólkið skapar með vinnu sinni.

Það er því ekki að ástæðulausu að verkafólk er yfirleitt andvígt þessari aðgerð auðherranna. Hins vegar er við öflugan óvin að etja. Einokunarherrarnir ráða yfir ríkisvaldinu, og geta því framkvæmt gengisfellingar þegar þeim sýnist. Það eina sem hindrar þá er einhuga samstaða verkafólks um að grípa til aðgerða gegn slíkum kjaraskerðingaráðstöfunum. Þessu gera frystihúseigendur sér fyllilega grein fyrir. Þess vegna undirbúa þeir nú jarðveginn, með því að hóta atvinnuleysi, **með því** að nota fjölmiðlana – sem þeir ráða yfir – til áróðurs, og síðast en ekki síst með því að nota sér aðstoð útsendara sinna í röðum verkalýðs – forystu ASÍ og Verkamannasambandsins.

Með uppsögnum og hótunum um stöðvun atvinnureksturs í Vestmannaeyjum og á fleiri stöðum eru frystihúsaeigendur enn að leggja áherslu á kröfur sínar um að gengi íslensku krónunnar verði fellt verulega. Um þetta standa frystihúsaeigendur á öllu landinu, með einokunarherra SÍS og SH í broddi fylkingar, sameinaðir. **Lokanir fiskvinnsluhúsa eiga** að þvinga launafólk í landinu til að samþykkja mótþróalaust þá gengisfellingu sem þeir hyggjast framkvæma.

En hvers vegna eru frystihúsaeigendur svo áfjáðir í að fella gengið? – Ástæðan er fyrst og fremst gróðahagsmunir þeirra. Með gengisfellingu lækka þeir laun verkafólksins. Ef verkafólk framleiðir vöru til sölu á erlendan markað hefur gengisfelling þau áhrif að auðherrann fær fleiri íslenskar krónur fyrir vöruna þótt hann selji hana á sama verði t.d. í dollurum. Með því bætist samkeppnisaðstaða hans á erlendum mörkuðum og gróðinn eykst, þar sem hann greiðir verkafólkinu laun í íslenskum krónum.

# Ályktun stjórnar og trúnaðarráðs Verkalýðsfélags Vestmannaeyja

Fundur haldinn í stjórn og trúnaðarráði Verkalýðsfélagi Vestmannaeyja,mánud.7.ágúst 1978.samþykkir eftirfarandi.

Þar sem stjórnvöld hafa sí og æ misbeitt valdi sínu, gegn verkalýðshreyfingunni í sambandi við gerða kjarasamninga,og nú best kemur fram með þvingunaraðgerðum áðurnefndra stjórnvalda gegn meðlimum Verkalýðsfélagsins Vöku á Siglu firði,vill fundurinn álykta að Alþýðusamband Íslands og Verkamannasamband Íslands hafa ekki staðið sig sem skyldi gegn áðurnefndum árásum stjáornvalda á hendur Verkalýðshreyfingunni.

Fundurinn bendir á eina ljósa staðreynd,sem er sú að stjórn og trúnaðarmannaráð Verkalýðsfélags Vestmannaeyja telur sig ekki geta eitt,staðið gegn móttöku loðnu á félagssvæði sínu. Fundurinn bendir á,að breytist ekki félagsþroski verkalýðshreyfingarinnar almennt og verði búið við núverandi stjórn völd eða önnur álíka,verður um næstu áramót komin upp sú staða að launafólk fái dagvinnulaun allan sólarhringinn.

Verði svo sem allt bendir til,telur stjórn og trúnaðarráð Verkalýðsfélags Vestmannaeyja mjög miður farið.

Fundurinn skorar því á allt launafólk í landinu og forsvarsmenn Verkalýðshreyfingarinnar að bregðast ekki eins og nú hefur gerst.

Verkalýðsfélag Vestmannaeyja leyfir því móttöku á loðnu og vinnu á vöktum,með þeim skilyrðum sem forvígismönnum,bæði Verkalýðsfélagsins og vinnuveitendafélags Vestmannaeyja eru kunnar.

Stjórn og trúnaðarráð V.V. áskilur sér allan rétt á breytingum frá þessum frávikum hvenær sem þurfa þykir.

## Svar miðnefndar SHA til 21.ágúst-hreyfingar:

# Rangfærslur og klofningsstarf

Miðnefnd Samtaka herstöðvaandstæðinga (SHA) hélt fund þ. 1. ágúst sl. og tók fyrir bréf 21. ágúst-hreyfingarinnar um samstarf um aðgerðir. Fyrir fundi fundi þeirra lá einnig samþykkt eina hverfahóps SHA sem starfar, hópsins í Kópavogi, þar sem hvatt er til samstarfs á grundvelli þeirra krafna er fjalla um baráttuna gegn sovéskri kúgun í Tékkóslóvakíu og um baráttuna gegn allri heimsvaldastefnu, NATÓ og hernum.

### "PRINSIPPIÐ"

Í umræðum um samstarfstilboð lögðu endurskoðunarsinnar Alþýðubandalags og Fylkingar mesta áherslu á að SHA hefðu ekki heimild til að starfa með öðrum samtökum eða samfylkingum. Þetta væri "prinsipp", sögðu þeir, byggt á hefð. Sé nánar að gáð, er ljóst að þetta eru rangfærslur. Ekkert ákvæði í lögum SHA bannar slíkt samstarf. Og þegar eini starfandi hverfahópurinn í SHA hefur ljáð samstarfi þessu fylgi sitt, ættu miðnefndarmenn ekki að þurfa að óttast neitt. Auk þess má benda á að SHA hafa haft samstarf við aðrar hreyfingar áður. T.d. stóðu þau fyrir nokkrum árum fyrir sameiginlegum aðgerðum með Víetnamnefndinni. En í dag skirrast þeir ekki við að beita ólýðræðislegum aðgerðum. "Prinsipp" þeirra eru "prinsipp" hinna "prinsipplausu" manna.

### BRÉF SHA TIL 21. ÁGÚST-HREYFINGAR.

Athyglisvert er að miðnefnd SHA beitir ekki "Prinsipp"-rökfærslu sinni í svarinu til 21. ágúst-hreyfingarinnar. Til þess virðast þeir telja sig standa á of hálum ís.

Í bréfinu segir svo:

"Því miður sér miðnefnd SHA sér ekki fært að efna til sameiginlegra aðgerða með nefnd ykkar, m.a. af eftirfarandi ástæðum:

1. Í fyrsta lagi er ljóst að SHA eru vettvangur fyrir andóf á borð við það sem hér er fyrirhugað (sjá stefnuskrá samtakanna). Miðnefndinni er því ekki alveg ljóst tilefni stofnunar 21. ágúst-nefndarinnar, nema ef um pólitískan ágreining er að ræða. Það getur hins vegar varla talist eðlilegt að slíkur ágreiningur sé jafnaður í sambandi við einstakar aðgerðir.
2. Í öðru lagi hefur 21. ágúst-nefndin – sem virðist aðeins starfa fáeinar vikur á ári – þegar ákveðið að skipuleggja aðgerðir þennan dag og kynnt þar í fjölmiðlum án undangengins samráðs við SHA.

Það er því eðlilegt að aðgerðir SHA og nefndar ykkar verði haldnar hvor í sínu lagi.

Miðnefnd SHA mun því efna til útifundar við sovéska sendiráðið 21. ágúst nk. kl. 17.30 til að andmala hersetu Sovétríkjanna í Tékkóslóvakíu og votta þannig stuðning sinn við frelsisbaráttu tékkneskrar alþýðu.

Miðnefnd SHA vill gjarnan ræða nánar við fulltrúa ykkar um aðgerðir 21. ágúst til þess að þær megi þjóna sem best settum markmiðum. Miðnefnd býður því fulltrúum 21. ágúst-nefndarinnar til að koma á sinn fund þriðjudaginn 8. eða 15. ágúst (allt eftir því hvort hentar ykkur betur) kl. 21, að Tryggvagötu 10 og ræða þessi mál.

Með baráttukveðjum,
Ásmundur Ásmundsson,formaður, f.h. Miðnefndar SHA."

### RANGFÆRSLUR

Eins og sjá má eru röksemdirnar heldur klénar, og því er gripið til beinna rangfærslna og þvættings.

Í fyrsta lagi hafði 21. ágúst-hreyfingin ekki boðað aðgerðir sínar né ákveðið neitt um þær. Tilgangurinn með samstarfstilboðinu var einmitt að reyna að ná sem mestri samstöðu um sem öflugastar aðgerðir 21. ágúst.

Öðru lagi var full þörf á stofnun og starfi 21. ágúst-hreyfingarinnar af tveim ástæðum, sem miðnefnd SHA eru fullkomlega ljósar:

a) Pólitískum ágreiningi sem felst í því að miðnefnd SHA er ekki reiðubúin til að líta á Sovétríkin sem heimsvaldasinnað risaveldi, sem ásamt Bandaríkjunum færir þjóðir heims æ nær nýrri heimsstyrjöld. Við erum hins vegar sannfærð um að mikill meirihluti íslenskra herstövaandstæðinga lítur sömu augum á Sovétríkin sem Bandaríkin. Pólitískur grundvöllur 21. ágúst-hreyfingarinnar er því allmiklu breiðari en sá grundvöllur sem miðnefnd SHA starfar eftir. En þrátt fyrir þennan ágreining var 21. ágúst-hreyfingin tilbúin til að leggja hann til hliðar, ef og aðeins ef verða mætti tékkreskri alþýðu til gagns. Slíkan samstarfsvilja er ekki að finna innan raða miðnefndar SHA.

b) Starfrænum ágreiningi. Miðnefnd SHA sýndi það í fyrra að hún óskar ekki eftir öflugum aðgerðum 21. ágúst og hefur engan áhuga á að hvetja til fjöldastarfs í því sambandi, né öðru. Hún sýndi það einnig nú að hún virðir lýðræði innan sinna samtaka einskis, með því að ganga algjörlega fram hjá áliti og tillögum eina hverfa**hóps**ins sem virkur er. Gegn slíkum vinnubrögðum í and-heimsvaldastarfi vill 21. ágúst-hreyfingin berjast.

Miðnefnd SHA býður 21. ágúst-hreyfingunni til viðræðna. Ekki er ljóst um hvað viðræðurnar eiga að fjalla, eftir að samstarfi hefur verið hafnað og miðnefnd SHA hefur ákveðið aðgerðir sínar.

### ÆTLANIR MIÐNEFNDAR SHA

Miðnefnd SHA mun ætla sér að standa fyrir mótmælastöðu og fundi við sovéska sendiráðið þ. **21. ágúst**, svipað og í fyrra. Grundvöllur þeirra aðgerða eiga að vera eftirtalin fjögur vígorð:

1. Styðjum frelsisbaráttu Tékka og Slóvaka!
2. Sovétríkin út úr Tékkóslóvakíu!
3. Gegn allri heimsvaldastefnu– Ísland úr NATÓ – herinn burt!
4. Gegn vígbúnaði stórvelda!

Þrjár fyrstu kröfurnar eru teknar beint úr kröfugrundvelli 21. ágúst-hreyfingarinnar, og sýnir glögglega þann pólitíska ágreining sem ríkir milli hreyfinganna tveggja. Með því að taka upp 3 og 1/4 af kröfugrundvelli 21. ágúst-hreyfingarinnar vonast miðnefnd SHA til að kæfa hana í fæðingu. Þetta er því beint og vísvitað klofningsstarf. Samt sem áður mun 21. ágúst-hreyfingin styðja aðgerðir SHA verði þær á áðurnefndum grundvelli og leita eftir samstarfi í einhverri mynd. T.d. hefur framkvæmdanefnd 21. ágúst-hreyfingarinnar ákveðið að bjóða fulltrúa SHA að flytja ávarp á stuttum útifundi sínum í miðbænum.

Um leið og 21. ágúst-hreyfingin styður aðgerðir miðnefndar SHA og hvetur fólk til að taka þátt í þeim, átelur hún það, að miðnefndin skuli neita að taka upp baráttu gegn hættulegustu óvinum friðar í heiminum, hættulegustu sameiginlegum óvinum íslenskrar og tékkneskrar alþýðu, – hinum tveim heimsvaldasinnuðu risaveldum, Sovétríkjunum og Bandaríkjunum. Jafnframt fordæmir 21. ágúst-hreyfingin þá afstöðu miðnefndar að efna til klofnings um aðgerðir 21. ágúst. 21. ágúst-hreyfingin var reiðubúin til viðræðna og málamiðlunar. Vinnubrögð miðnefndar SHA gagnast ekki kúgaðri alþýðu Tékkóslóvakíu, heldur eru þau vatn á millu verstu óvina hennar, sovésku heimsvaldaseggjanna. Klofningstilburðir miðnefndar SHA eru annaðhvort tilkomnir vegna óskarinnar um að brjóta niður allt baráttusinnað andheimsvaldastarf hérlendis eða vegna óskarinnar um að draga úr gagnrýni og baráttu sem beinist að Kremlar-keisurum. Nema hvort tveggja sé.

# „Íhaldsúrræðum hafnað"

"Alþýðubandalagið hafnaði gömlu íhaldsúrræðunum, gengisfellingu og tvöföldu kaupráni, sem Alþýðuflokkurinn og Framsóknarflokkurinn stóðu að og því stönduðu stjórnarmyndunarviðræðurnar á stefnu þeirra". Þetta var innihaldið í skýringu Alþýðubandalagsleiðtoganna á slitum á viðræðum um myndun ríkisstjórnar sem AB kenndi við "vinstri".

AB-foringjarnir hafa verið málglaðir allt frá viðræðuslitunum og látið hátt um verkalýðsfjandskap hinna flokkanna tveggja, en "verkalýðssinnaða stefnu" AB.

En í raun er aðeins blæbrigðamunur á stefnu AB og hinna borgaralegu flokkanna, hvort heldur er í kjaramálum eða öðrum málum (hermálið var tæplega rætt í stjórnarmyndunarviðræðunum!). AB-foringjarnir vilja hins vegar ekki eiga á hættu að tapa atkvæðum (og þingsætum) með setu í ríkisstjórn, um þessar mundir. Þeir eru fyllilega sammála öðrum borgaralegum stjórnmálamönnum og oddvitum atvinnurekenda, að "lausn" á kreppuástandi auðvaldsþjóðfélagsins sé sú að velta byrðunum í enn ríkara mæli yfir á herðar verkafólks og annars launavinnufólks.

Alþýðubandalagið lagði fram tillögubálk í viðræðunum við fyrrnefnda flokka varðandi efnahagsmálin og kennir þar margra grasa. Í upphafsorðum þeirra segir svo um "fyrstu aðgerðir í efnahagsmálum" (og takið nú vel eftir!): "að tryggja rekstur atvinnuveganna til áramóta, að draga úr verðbólgunni, að tryggja frið á vinnumarkaði"! Þannig draga AB-foringjarnir sjálfir saman kjarnann í máli sínu og þennan söng þekkja víst flestir sem á annað borð hafa fylgst með þjóðmálum síðustu árin. Hér er á ferðinni opinská auðvaldsstefna. Að "tryggja rekstur fyrirtækja" þýðir á máli auðherra að halda niðri kaupi, að "draga úr verðbólgunni" þýðir á þeirra máli að auka hana til aukningar gróðans, að "tryggja frið á vinnumarkaði" þýðir að halda niðri kaupi og skerða hvers konar réttindi verkafólks. AB-forystan ætlar ASÍ-forystunni það hlutverk að múlbinda verkalýðshreyfinguna enn frekar og "tryggja vinnufrið". "Ja, djúpt er hann sokkinn í dýið hann Blesi"!

Ótal atriði mætti tilnefna sem gullkorn úr frekari útfærslu tillagna Bandalagsins. En rúmið leyfir aðeins að minnst sé á fá atriði. AB-forystan vill "stórauka hagræðingu í atvinnurekstri og ríkisbúskap". Ekkert er það skýrt frekar, líkt og þegar sömu hugrenningum skýtur upp hjá Vinnuveitendasambandinu. Í kafla sem ber nafnið "ríkisreksturinn" er að finna niðurskurðaráætlanir AB-forystunnar á opinberri þjónustu, dæmigerðar kreppuráðstafanir auðherra. Við birtum kaflann í heild sinni og strikum undir hér og þar:

"Athuganir og endurskipulagning á rekstri ýmissa ríkisfyrirtækja, sem hafnar voru í tíð vinstri stjórnarinnar, verði teknar upp á ný. Markmið slíkra aðgerða verði aukinn sparnaður og aðhald í rekstrinum, án þess þó að dregið verði úr gæðum þjónustunnar við almenning. Í fyrstu verði athugunum beint að: stjórnsýslukerfi ríkisins, rekstri ríkisspítalanna og annara fyrirtækja í heilbrigðisþjónustu, Pósti og síma og Rafmagnsveitum ríkisins og öðrum stofnunum á sviði orkumála.

Rekstrarútgjöld ríkisins verði skorin verulega niður, t.d. yfirvinna og aukagreiðslur".

Athyglisvert er það vissulega að "yfirvinna og aukagreiðslur" skuli vera sá útgjaldaliður sem mest stingur í augu þeirra AB-foringja!

Að lokum skal bent á áhuga Alþýðubandalags-forystunnar á því að leiðbeina borgarastéttinni á Íslandi í "skynsamlegum fjárfestingum". Það á að gera "þjóðhagsáætlanir" sem "taki mið af félagslegum markmiðum í umsköpun þjóðlífsins í samræmi við hagsmuni launafólks". Er ekki orðbragðið hans Ólafs Ragnars unaðslegt? Hann hefur lag á því að koma svikum AB-forystunnar í svo fallegan búning á prenti! Og svo vill AB-forystan fá meiri "félagsleg eignarform" (hvað er það annars?), "samruna fyrirtækja" (stærri og færri auðhringa) og "ný samvinnuform" (af því svo mikið óorð er komið á Sambandið meðal launafólks).

Nei, hér má slá í botn, enda af nógu að taka. Hér er ekki einu sinni á ferðinni plagg sem er "sósíalismi í orði, en arðráns- og auðvaldsstefna í verki". Nei, hér er á ferðinni dæmigerð kreppupólitík sem allir borgaraflokkarnir að Sjálfstæðisflokknum meðtöldum gætu fúslega skrifað undir. Alþýðubandalagsforystan hefur m.a.s. gleymt hugtakinu "verkafólk" við samningu þess! Segir það ekki alla söguna?

# Fleiri frystihúsum lokað

Það nýjasta í lokunarmálum frystihúsanna er að þrjú frystihús í Reykjavík hafa bæst í hóp þeirra frystihúsa sem loka 1. sept. nk. Þetta kom fram eftir síðasta fund frystihúsaeigenda og eru ástæðurnar sagðar "miklar launahækkanir, rekstrarörðuleikar, taprekstur" o.fl. Starfsfólk frystihúsanna og öll alþýða veit mætavel hverjar eru ástæður fyrir lokunarákvörðununum. Frystihúsaeigendur eru að þvinga í gegn gengisfellingu, og þar með launalækkun. Það er sama sagan og venjulega; þegar gróði þeirra minnkar er verkafólki hent út á klakann og það látið bera byrðar kreppu þeirra. Starfsfólk frystihúsanna sér í gegn um blekkingarnar um "hallareksturinn", eða hvernig gæti t.d. Ísbjörninn hf. byggt frystihús upp á marga milljarði og keypt tvo nýja skuttogara, ef frystihúsið væri rekið með tapi???

Nei, hér verður að koma til barátta starfsfólks frystihúsanna gegn uppsögnum og lokunum. Það eru grundvallarmannréttindi að hafa atvinnu og verkafólk mun ekki láta bjóða sér það að verða rekið heim og kallað til vinnu aftur, þegar atvinnurekendum hentar. Það þarf að bregðast við með aðgerðum verkafólksins sjálfs, t.d. hægagangsvinnu, neitun á yfirvinnu, mótmælaverkfalli eða verkfalli þangað til að atvinnurekendur hætta við lokun 1. sept., allt eftir því hvaða tegund aðgerða henta á hverjum stað.

Verkafólk! Tökum upp eigin baráttu - það borgar sig!




# Nýja gang

"Samfulltrúar! Rústun "fjórmenningaklíkunnar" er annar vendipunktur í sögu byltingar okkar. Það almenna verkefni sem nú blasir við alþýðu okkar á hinu nýja tímabili þróunar sósíalísku byltingarinnar og sósíalísku uppbyggingarinnar er að framkvæma stefnu 11. flokksþingsins af festu, halda byltingunni staðfastlega áfram undir alræði öreiganna, efla hinar þrjár miklu byltingarsinnuðu hreyfingar stéttabaráttunnar, baráttuna fyrir framleiðslunni og vísindalegum tilraunum og umbreyta Kína í mikið og voldugt sósíalískt land með nútíma landbúnaði, iðnaði, þjóðlegum vörnum og vísindum og tækni fyrir lok aldarinnar." (Húa Kúó-feng formaður: Úr skýrslu til Fimmta þjóðþingsins, 26. febr. 1978.)

## TÆKNIN Í ÞJÓNUSTU ALÞÝÐUNNAR

Eins og getið var um í 1. grein greinaflokksins, þá er Kína þróunarland, þar sem iðnaður og tækni er enn ekki á þróuðu stígi. Kínversk alþýða vinnur nú staðfastlega að því að breyta þessu ástandi.

Iðnþróunin í Kína gerist ekki einfaldlega með því að hrúga saman fullkomnum tækjum og kenna verkafólki á tækin, en svoleiðis "iðnþróun" þekkist t.d. þar sem heimsvaldaríki hafa komið af stað "iðnþróun" í löndum þriðja heimsins, enda tilgangurinn sá að geta rakað saman enn meiri gróða frá þróunarlöndunum.

Í Kína gerist þetta öðruvísi. Tæknin skal þjóna alþýðunni, gera henni kleift að ráða við bæði aukna og betri framleiðslu og einnig þær takmarkanir sem náttúran setur henni. Gróði sá sem iðnþróunin í Kína færir alþýðunni er sífellt betri lífskjör og öryggi, og ekki síst að alþýðan sjálf ræður yfir öllu þessu.

Við spurðum framkvæmdastjóra stórrar og fullkominnar díseleimreiðaverksmiðju hvort ekki sköpuðust vandræði þegar fullkomnar tölvustýrðar vélar, eins og þeir höfðu tekið í notkun, leystu tugi og hundruð verkamanna af hólmi. Eins og við vitum þá veldur slíkt atvinnumissi og atvinnuleysi í auðvaldslöndunum. Forstjórinn svaraði að engin vandræði sköpuðust, heldur þvert á móti þá sköpuðust nýir möguleikar fyrir verkalýðinn og þegar tæknin væri orðin enn fullkomnari og útbreiddari þá kemur að því að hægt verði að stytta vinnudaginn og auka enn á lífshamingju alþýðunnar, þar sem þá fengi alþýðan bæði betri og ódýrari vörur og meiri tíma til að njóta lífsins.

## "GANGAN MIKLA"

Sú allsherjariðnþróun sem stefnt er að um allt Kína krefst mikils átaks, sem einungis er hægt að jafna við það átak þegar Rauðiherinn, byltingarher verkamanna og bænda undir forystu Mao Tsetungs formanns ruddi sér braut í vopnaðri baráttu 12,500 km langa leið í gegn um 11 héruð á árunum 1934-36. Þessi mikla ganga var vendipunktur í byltingar og frelsisbaráttu kínversku alþýðunnar. Nú er komið að enn einum vendipunkti og fyrir höndum er langt tímabil mikillar uppbyggingar, ný "mikil ganga".

Í ræðu sinni á 11. flokksþinginu sagði Húa formaður: "Til þess að byggja sósíalismann verður verkalýðsstéttin að eiga eigin her tæknimenntaðra félaga og prófessora, kennara, vísindamanna, blaðamanna, rithöfunda, listamanna og marxískra fræðimanna. Þetta verður að vera geysistór her, - fámennur hópur manna nægir alls ekki.".

Með samvinnu milli leiðandi flokksfélaga, tæknivísindamanna og verkalýðs, fleygir tækniþróuninni fram. Kínverjar læra af og færa sér í nyt alþjóðlega tækniþekkingu, án þess þó að gera sig á nokkurn hátt háða erlendum ríkjum.

Nýja "gangan mikla" kom við kaunin á svikurum og andstæðingum sósíalísku uppbyggingarinnar í Kína. Baráttan fyrir því að standa á eigin fótum, treysta á eigið afl og vera engum öðrum háður, hefur staðið lengi í Kína. Sú barátta hefur líka fært kínverskri alþýðu vitund um hversu hættulegt hið gagnstæða er. Á fimmta áratugnum voru Kínverjar mjög háðir Sovétríkjunum en eftir valdatöku Krúsjoff-klíkunnar í Sovétríkjunum settu þau bæði skilyrði fyrir aðstoðinni og kvaðir á Kínverja. Sovétríkin reyndu að stýra þróun og uppbyggingu Kína eftir eigin hag. Þessu neituðu Kínverjar



Tölvuútbúnaður til að stýra framleiðsluvélunum.



Þátttaka kvenna í framleiðslunni er mikil.

# Lærum af Kina

Þróun ástandsins í heiminum stefnir í átt að stríði milli risaveldanna. Sovétríkin og Bandaríkin vígbúast. Þetta fer ekki fram hjá neinum, enda þótt sumir vilji bæði þegja yfir þessu og ekki viðurkenna það opinberlega. Við kommúnistar viljum ekki þegja yfir og fela þessa staðreynd. Við hvetjum alþýðuna til að taka mið af ástandinu og undirbúa sig undir að mæta ógnunum þeim sem risaveldin steðja að henni. Við getum í því tilviki lært mikið af kínverskri alþýðu. Hún tekur mið af ástandinu og undirbýr sig til varnar. Við ættum að fylgja fordæmi hennar og efla almannavarnir og vinna á allan hátt gegn stríðsundirbúningi risaveldanna.

Verkalýðsblaðið birtir hér frásögn ferðalangs nokkurs til Kína en hann skoðaði varnarviðbúnað kínverskrar alþýðu í Pekíng. Sendinefnd EIK(m-l) skoðaði samskonar varnarundirbúning í öðrum borgum.

Ferðabréf norska ferðalangsins er svohljóðandi.: "Án þess að skilja nokkuð í því er okkur fylgt inn í vefnaðarvöruverslun, sem er full af fólki. Í besta James Bond stíl opnast gólfið bak við afgreiðsluborðið og steintröppur liggja niður í "neðanjarðarborg Pekíng", sem hefur einnig göng út í úthverfin.

Göngin eru múruð upp með múrsteinum, sem gerðir voru úr leirnum sem grafinn var út á sama stað. Kjörorðið var "Íþyngjum ekki ríkinu að nauðsynjalausu". Hvað er það sem hefur fengið Kínverja (að mestu í frístundum) til að byggja þetta mikla mannvirki á átta árum? Skýringin liggur í afstöðu þeirra til heimsástandsins og pólitískri afstöðu og virkni.

Kínverjar eru andstæðingar stríðsins, en þeir eru ekki hræddir við það. Aukin stríðsvirkni Sovétríkjanna og ógnanir sem einnig beinast gegn Kínverjum styrkir eininguna meðal alþýðunnar. Kínverjar læra af neikvæðum fyrirmyndum, eins og Sovétríkjunum og skilningurinn á vörnum er afar mikill.

Mannvirkið undir Pekíng er ekki aðeins loftvarnarbyrgi. Þar eru tæki til að viðhalda loftstreymi og til að hreinsa eiturgas úr loftinu. Rafmagn,

# gan mikla

## 2 grein

og hættu Sovétríkin þá allri aðstoð um 1960 og skildu iðnaðaruppbygginguna eftir í sárum. Undir forystu Kínverska kommúnistaflokksins hóf kínverska alþýðan mikla uppbygginguog baráttu gegn þeim öflum sem vildu troða braut Sovétríkjanna, braut endurskoðunarstefnu, sem miðaði að því að mola sósíalismann í Kína og endurreisa auðvaldsskipulagið.

Frá því 1949 hefur Kína komist yfir alla erfiðleika á eigin rammleik. Kínverska þjóðin komst yfir þá erfiðleika sem sköpuðust þegar Krúsjoff-klíkan sveik alla gerða samninga og hún barðist gegn svikastefnu endurskoðunarsinna eins og Líú Sjá-sí, sem boðaði kenningar sem stefndu inn á braut auðvalds á sjötta áratugnum, Lín Píaó, sem leiddi marga þætti Menningarbyltingarinnar inn á villigötur og reyndi valdarán í upphafi þessa áratugs og "fjórmenningaklíkunnar", sem skipulagði umfangsmikla herferð gegn alræði öreiganna og sósíalismanum í Kína. "Fjórmenningaklíkan" var rústuð haustið 1976, en ennþá vinnur kínverks alþýða að því að lagfæra þær miklu skemmdir sem hún vann á uppbyggingunni og enn er í gangi mikil herferð til að gagnrýna svikastefnu klíkunnar, en sú herferð miðast líka að því að læra af reynslunni þannig að koma megi í veg fyrir að slíkar svikaklíkur nái að hreiðra um sig og vinna skemmdarverk.

Þessir sigrar á stéttaróvinum kínverskrar verkalýðsstéttar hafa rutt mörgum hindrunum úr vegi fyrir því stóra átaki sem nú er hafist handa um, að byggja nútíma iðnað og landbúnað og gera Kína að voldugu sósíalísku landi fyrir aldamót.

### "TÖKUM BYLTINGUNA FÖSTUM TÖKUM"

Fimmta þjóðþing Kína samþykkti áætlun fyrir næstu 10 ár (1976-85). Á þessum tíma ætlar kínversk alþýða að efla landbúnaðinn svo að á öllum helstu sviðum verði hann vélvæddur 85%. Sömuleiðis á að efla bæði léttan iðnað og þungaiðnaðinn og auka vélvæðingu þar stórlega með fullkomnum vélum. Byggja verður upp samgöngukerfi og fjarskiptakerfi, til að þjóna iðnaðaruppbyggingunni.

Um framkvæmd 10 ára áætlunarinnar sagði Húa formaður: "Framkvæmd 10 ára áætlunarinnar mun skapa geysilegar efnahagslegar og tæknilegar breytingar og skapa landinu miklu traustari efnahagsgrundvöll og að viðbættu öðru tímabili með hörkuvinnu, er tekur til þriggja 5 ára áætlana, munu skilyrði vera sköpuð fyrir því að Kína taki sæti sitt í fremstu röð í efnahagslífi heimsins."

Þessu verki er kínversk alþýða staðráðin í að ljúka á tilsettum tíma og jafnvel fyrr. Með orð Maos formanns að leiðarljósi -"Tökum byltinguna föstum tökum, aukum framleiðsluna og annað starf og undirbúninginn gegn stríði",- vinna nú milljónir Kínverja að því að raungera þau markmið sem þeir hafa sett sér.





**Varnarviðbúnaður er mikilvægt** atriði á öllum vinnustöðum. Hér fellur loftvarnarbyssan inn í landslagið á eðlilegan hátt. (Myndir : Vbl)

vatn, matsalur, eldhús, svefnsalur, sjúkrastöð. Við sáum ekki allt, en okkur var sagt að þar væru líka kvikmyndahús, skólar, verkstæði, samskiptastöð, salerni, geymslusalir o.m.fl. Sumt er í notkun líka á friðartíma.

Svæði það sem við heimsóttum var byggt af óreyndum verslunarverkamönnum og náði um borgarsvæði þar sem á hverjum tíma eru um 10.000 manns. Í þessu hverfi eru um 90 inngangar í göngin frá verslunum og húsum og myndi það aðeins taka um 5 mínútur fyrir alla að komast niður í göngin. Okkur var sagt að 8 metra niður í jörðinni myndu göngin þola sprengjur með 10.000 tonna þrýstingi. Ef stríðið drægist á langinn, eru til miklar birgðir og geta stórir flutningabílar flutt nauðsynlegustu vistir inn í gegn um stór göng.

"Fjórmenningaklíkan" sem hafði völdin yfir fjölmiðlun olli miklum skaða á uppbyggingu loftvarnabyrgjakerfisins, með því að birta aldrei greinar sem hvöttu til aukinnar uppbyggingar. "Fjórmenningaklíkan" hafði enga trú á nýrri styrjöld.

Alþýðufjöldinn í Kína vonar að hægt verði að komast hjá stríðinu. En hann getur ekki komið í veg fyrir árásir og þá er um að gera að vera undirbúinn. Þetta varnarkerfi er líka gert til gagnárása. Og ég get vel skilið þá þegar þeir segja að við skulum koma í veg fyrir að óvinurinn geti komist undan. Árás á Kína mun verða eins og að ganga inn í ljónahellinn. Kína 10. júlí 1978. AE"

(Bréfið birtist í Klassekampen)



Jiri Pallas (Mynd : Vbl.)

# Kerfið leyfir engar andstæðar skoðanir

## Viðtal við tékkneskan flóttamann Jiri Pallas,

Margir þeirra sem undirrituðu Charta 77 hafa orðið að flýja land og gerast flóttamenn víða um heim til að forða sér undan ofsóknum tékkneskra yfirvalda. Einn þessara manna er Jiri Pallas, sem nú er búsettur í Svíþjóð. Tíðindamaður Verkalýðsblaðsins brá sér á hans fund og tók við hann viðtal um ástandið í Tékkóslóvakíu nú - 10 árum eftir innrás Sovétmanna - og um reynslu sína. Viðtalið er því miður of langt til að það verði birt allt í einu. Birtist því fyrri hluti þess nú, en síðari hlutinn kemur í næsta blaði.

SP.: Hvað gerðuð þið hjónin í Tékkóslóvakíu áður en þið komuð til Svíþjóðar ?
Svar: Við unnum í matvælaverksmiðju. Við gengdum engum trúnaðarstöðum og vorum ekki starfandi í neinum flokki. Ég var tæknifræðingur og fylgdist með öryggi og hreinlæti í verksmiðjunni, en konan mín var hagfræðingur. Þegar við kynntumst Charta 77 þá skrifuðum við undir, vegna þess að okkur þótti allt sem þar stóð vera rétt. Ástandið var orðið svo þrúgandi að ekkert mátti segja eða gera. Eftir 1969 fór ástandið stöðugt versnandi og var óbærilegt um það leyti er Charta kom fram.
SP.: Hvað gerðist síðan eftir að Charta birtist ?
Svar: Á vinnustað okkar komu menn frá lögreglunni og sögðu að meðal starfsmanna væru 2 sem hefðu skrifað undir. Mér var sagt upp, en konuna ráku þeir ekki, en fluttu í annað verra starf. Ástæðan fyrir uppsögn minni var að þeirra sögn, að ég uppfyllti ekki þau skilyrði, sem krafist er í þessu starfi.
SP.: Hér er í reynd um pólitíska uppsögn að ræða. Er hægt að reka fólk úr starfi á pólitískum forsendum ?
Svar: Tékknesk lög eru þannig úr garði gerð, að hægt er að túlka þau á alla vegu. Ég kærði þessa meðferð á mér, en tapaði fyrir dómstólum. Réttarhöldin fóru fram fyrir luktum dyrum, á áhorfendabekkjunum sátu 4 lögreglumenn, en fólkinu sem vildi hlusta á sögðu þeir að allt væri fullsetið.
SP.: Var hægt að reka þig svona fyrirvaralaust, voru ekki haldnir fundir um málið ?
Svar: Ég fékk uppsagnarbréf, sem var undirritað af forstjóranum og stimplað af verkalýðsfélaginu.
SP.: Gerði verkalýðsfélagið á vinnustaðnum engar athugasemdir við þetta ?
Svar: Nei, verkalýðsfélaginu er stjórnað ofanfrá og þjónar engum öðrum en flokknum og ríkinu.
SP.: Fékkstu stuðning frá vinnufélögum ?
Svar: Jú vissulega, en mál okkar var ekki afgreitt á neinn lýðræðislegan hátt og ekki einu sinni samkvæmt gildandi reglum. Forstjórinn bar upp málið á stjórnarfundi með trúnaðarmönnum verkalýðsfélagsins, en í þeim hópi eru aðeins menn sem eru hollir forystunni. Síðan vorum við færð til yfirheyrslu hjá lögreglunni og okkur sagt, að hefðum 3 möguleika : Útlegð, fangelsi eða geðveikrahæli. Þar sem við sáum að við myndum ekki eiga 7 dagana sæla og þurfa að búa við atvinnuleysi, þá þótti okkur sá kosturinn vænstur að flýja landið.
SP.: Hvernig er fréttamiðlun háttað í Tékkóslóvakíu og hvaða möguleika hefur fólk á að mynda sér sjálfstæðar skoðanir ?
Svar: Ríkiskerfið einokar alla fréttamiðlun. Um öll mikilvæg málefni fást aðeins upplýsingar frá einu sjónarhorni. Fjölmiðlarnir segja aldrei nema hálfan sannleikann. Bannaðar eru umræður þar sem andstæðar skoðanir takast á. Með tímanum síast inn í undirmeðvitund fólks ákveðnar hugmyndir, þar sem áróðurinn dynur á fólki í sífellu. Vitneskja fólks um lífskjör á Vesturlöndum er algengt dæmi um þetta. Fólk veit af eigin reynslu og því sem það sér, að lífskjör eru víða mun betri á Vesturlöndum en í Tékkó-



slóvakíu. En í undirmeðvitundinni telur það sér trú um, að þar sem á Vesturlöndum sé stórfellt atvinnuleysi hljóti þar að vera vesæld og fólk deyja þar úr hungri. Þegar skrifað er um Vesturlönd er sífellt dregin upp sú mynd af kapitalismanum sem Tékkar kynntust af eigin raun í kreppunni miklu á 4. áratugnum. Tékkneskar fréttastofur eru nokkurs konar útibú frá TASS og í fréttaskýringum eru einungis túlkaðir hagsmunir Sovétríkjanna.
SP.: Er mögulegt fyrir fólk sem hefur aðgang að öðrum fréttamiðlum að viðra skoðanir sínar í umræðum á vinnustað eða annars staðar ?
Svar: Vissulega fræðilegur möguleiki, en í reynd er hann enginn. Um leið og þú ferð að halda fram öðrum skoðunum en kerfið, er strax farið að þjarma að þér og smám saman ertu sviptur stöðu þinni, réttindi þín skert og þér gert lífið leitt á allan hátt. Þetta hafa undirritendur Charta orðið að reyna, enda eru flestir þeirra nú á botni samfélagsins. Í samræðum sín á milli forðast fólk að ræða stjórnmál, það veit fyrirfram að það getur engu breytt og maður veit aldrei hverjum hægt er að treysta og hverjir eru njósnarar. Margir eru fyrirfram sannfærðir um að það sé fullkomlega tilgangslaust að ræða stjórnmál, þar sem ekkert hafist upp úr því annað en vandræði.
SP.: Hafa ekki flokksbundnir kommúnistar einhverja forgöngu um að halda uppi pólitískri umræðu ?
Svar: Síður en svo. Eftir 1970 er ekki hægt að segja að menn hafi gengið í flokkinn af hugsjónaástæðum eða stjórnmálaáhuga. Allur fjöldi flokssmanna er þar einungis til að standa betur að vígi í lífsgæðakapphlaupinu. Þetta er oft óheiðarlegt fólk, sem reynir að krækja sér í góðar stöður og há laun hvað sem það kostar.
SP.: Hversu altækt er eftirlit með fólki ?
Svar: Í Tékkóslóvakíu eru allir skyldaðir til vinnu, en til eru atvinnuleysingja samanber þá sem skrifuðu undir Charta. Ef þú lætur af störfum einhversstaðar er það tilkynnt embætti héraðs- eða sveitarstjórnar. Fáir þú þér ekki vinnu innan 6 vikna ertu annaðhvort skyldaður að taka þeirri vinnu sem þeir útvega eða settur í fangelsi. Starfsmannadeild á gamla vinnustaðnum gefur um þig nákvæma skýrslu og sendir nýja vinnuveitandanum. Þar er að finna persónulegar upplýsingar, hvað þú hefur gert, sagt, hverja þú þekkir, sambönd þín við útlendinga, hvort þú hafir hlegið að skrítlu um Brésnef og þannig mætti lengi telja. Svona skýrsla fylgir hverjum einasta vinnandi manni í Tékkóslóvakíu eins og skugginn hans og fær viðkomandi aldrei að vita hvað um hann er skrifað.

## Tékknesk plata

Um þessar mundir kemur út í Svíþjóð hljómplata með tékkneskum listamönnum, sem flest allir hafa lent í andstöðu við tékknesk yfirvöld. Sænskir tæknimenn smygluðu inn upptökutækjum til Tékkóslóvakíu og tóku upp plötuna í leyni. Meðal listamannanna sem fram koma á plötunni má nefna Mörtu Kubisova sem er þekkt söngkona bæði innan og utan síns heimalands. Flestum þeim sem fram koma á plötunni er bannað að koma fram opinberlega í heimalandi sínu og hafa ekki gert það í mörg ár. Jiri Pallas vildi hvetja fólk til að kynna sér þessa plötu um leið og hún kemur á markaðinn, en það er sænska Október forlagið sem gefur hana út. Að öllum líkindum munu sænskar þýðingar á textum fylgja plötunni. Markmiðið með útgáfu plötunnar er að styrkja samstöðuna með baráttu Tékka fyrir mannréttindum svo og að styðja við bakið á undirritendum Charta 77, en flestir fyrrnefndra listamanna hafa skrifað undir það skjal. Vonandi verður ekki löng bið á því að Október búðin í Reykjavík geti kynnt viðskiptavinum sínum þessa hljómplötu.



**Lönd vilja sjálfstæði · þjóðir vilja frelsi · alþýðan vill byltingu**

# „Samruni" Kúbu og Sovétríkjanna

eftir Mei Ping

Eftirfarandi grein er þýdd Peking Review nr. 28 1978. Þýðingin er á ábyrgð blaðamanna Verkalýðsblaðsins, en milli fyrirsagnir eru höfundar.

Samkvæmt áætlun þeirra er til þekkja veita Sovétríkin Kúbu 2 - 3 milljónir dollara á dag.

Í þessu eylandi, sem hefur færri en 10 milljónir íbúa, eru alls 150.000 sovéskir "ráðgjafar", sérfræðingar, diplómatar, hernaðarfulltrúar, verkfræðingar, kennarar o.s.fr. Auk þess streyma sovéskir verslunarmenn, listafólk og leyniþjónustumenn inn og út úr Havana og öðrum kúbönskum borgum í tímabundnum erindagjörðum.

## SOVÉTÍSERING

1974, eftir heimsókn til Sovétríkjanna, lýsti Castró því yfir að tengsl Kúbu við Sovétríkin hefðu "náð sínu hæsta stigi" og að "alþjóðleg vinnuskipting hinna sósíalísku ríkja" hefði rutt brautina fyrir víðtækan "samruna". 1972 lýsti hann yfir að Kúba hefði "hugmyndalega og efnahagslega" náð "samruna við þjóðasamfélagið" sem Sovétríkin hefðu forystu fyrir. Í dag, sex árum síðar, hefur þessi "samruni" þanist út yfir slík mikilvæg svið sem hernaðarmál og utanríkismál. Í raun hefur "samruninn" þýtt "sovétíseringu". Það er ekki að furða að erlendur fréttamaður skyldi skrifa frá Havana að "í Kúbu dagsins í dag sést nærvera Sovétríkjanna allstaðar" og "að risaskuggi Sovétríkjanna falli á Kúbu".

Síðasta áratuginn hafa Sovétríkin náð því stig af stigi, með beitingu allra tiltækra meðala, að taka sæti Bandaríkjanna sem herraríki Kúbu. Kúba var dregin inn í Comecon árið 1972, og í dag stæðist efnahagskerfi Kúbu ekki út daginn ef ekki kæmi til stórfelldur fjáraustur Sovétríkjanna, á sama hátt og Kúba á dögum Batista var háð Bandaríkjunum. Þá þurfti Kúba að þola miklar þrengingar vegna þess að einhæft efnahagskerfi landsins krafðist þess að það væri algerlega háð öðrum löndum. Í dag þvinga Sovétríkin Kúbu til að viðhalda einhæfu efnahagskerfi, þar sem sykur er mikilvægasta framleiðsluvaran allt undir merkjum "alþjóðlegrar vinnuskiptingar". Til að mæta þörfum "hins sósíalíska ríkjabandalags" fyrir sykur hefur Kúba þurft að brjóta meira land til ræktunar sykurs og veita meira vinnuafli og fjármagni í sykurvinnsluiðnaðinn. Afleiðing þessa er, að Kúba verður að flytja inn frá Sovétríkjunum korn, baðmull, eldsneyti og aðrar daglegar nauðsynjar um þúsunda mílna veg.

Moskva notfærir sér einokunaraðstöðu sína gagnvart efnahagskerfi Kúbu með því að selja þangað umframvörur. Til dæmis eru vélar til orkuframleiðslu sem Moskva selur til Kúbu úreltar, þurfa mikið eldsneyti, hafa litla framleiðslugetu og eru gjarnar til að bila - afleiðingin er sú, að bilanir í orkukerfinu eru algengar í ákveðnum hlutum landsins. Auk þessa, undir yfirskyni "alhliða efnahags- og tæknisamvinnu" hafa Sovétríkin teygt áhrif sín yfir iðnfyrirtæki á Kúbu þ.á.m. málmiðnað, efnaiðnað, vélaiðnað, vefnaðariðnað og orkuframleiðslu, sem og kjarnorkuver og hafnaraðstöðu. Af meira en 200 "sameiginlegum" framkvæmdum á þessum sviðum er nokkuð stór hluti byggður einungis með því markmiði að þjóna hernaðarþörfum Sovétríkjanna.

Það skiptir ekki máli hversu fallega mynd leiðtogar Kúbu reyna að draga upp af "alþjóðlegri vinnuskiptingu" og "samruna - Sovétríkin leika sama hlutverk í efnahagslífi Kúbu og hvert annað nýlenduveldi: Rænandi og ruplandi með annari hendi en "veitandi aðstoð" með hinni. Síðasta áratuginn hefur skuldasöfnun Kúbu við Sovétríkin náð 6-7000 milljónum bandaríkjadala, eða nálægt 600 dollurum á hvert mannsbarn í landinu. Þessi efnahagslegi "samruni" hefur bundið Kúbu við stríðsvagn Sovétríkjanna, og neytt Kúbu til að endurgreiða skuldina með blóði og lífi æsku landsins.

## "HÁÐ SAMÞYKKI MOSKVU"

Hvergi sést betur en á sviði utanríkismála, að "samruni" Kúbu þýðir "sovétisering". Á síðustu árum hefur Kúba fylgt fram stefnu Sovétríkjanna í Afríku. Mið-Austurlöndum og nokkrum alþjóðlegum samtökum. Kúbanskur leiðtogi sem fór um Afríku og Mið-Austurlönd í mars og apríl á síðasta ári starfaði náið í samhengi við stjórnmálalega sókn Sovétríkjanna; Havana fylgir leiðbeiningum Moskvu út í ystu æsar. Á alþjóðavettvangi heldur Kúba því á lofti að það sé aðeins ein tegund heimsvaldastefnu, í tilraun til að fela heimsvaldastefnu Sovétríkjanna og grafa undan baráttu alþýðu heimsins gegn heimsvaldastefnu og heimsyfirráðastefnu. Hönd í hönd reyna Sovétríkin og Kúba að sá óeiningu milli alþýðu Asíu, Afríku og S-Ameríku með því að skipta löndum 3. heimsins og óháðu ríkjunum í "framsækin" og "afturhaldssöm" ríki. Orð og gerðir Kúbu á alþjóðavettvangi eru, eins og dálkahöfundar erlendra tímarita orða það, "háð samþykki Moskvu". Íhlutun og tilraunir til að ná fótfestu víða um heim af hálfu Kúbu eru "óaðskiljanlegur hluti af stjórnlist Sovétríkjanna fyrir útþenslu erlendis".

## "ÚTLENDINGAHERSVEIT"

"Samruni" Kúbu við Sovétríkin á hernaðarsviðinu er jafnvel enn meira ógnvekjandi. Landher, floti og flugher Kúbu er þjálfaður af sovéskum leiðbeinendum, eingöngu búin sovéskum vopnum, og jafnvel einkennisbúningar kúbanskra hermanna eru hannaðir og framleiddir í Sovétríkjunum. 1973 var komið á í Kúbu nýrri skipulagningu innan raða hersins, til að hún samsvaraði "skipulagningunni í sósíalísku ríkjunum undir leiðsögn Sovétríkjanna". Upprunalega var æðsta staða í hernum staða majórs, en í dag er til staðar fjölskrúðug flóra yfirhershöfðingja, hershöfðingja landhers, aðstoðar hershöfðingja, herfylkis-hershöfðingja.... Herafli Kúbu sem gerði uppreisn gegn afturhaldsstjórn Batista hefur breyst bæði í eðli og útliti. Hann hefur svikið byltingarmarkmið sín og glatað þjóðlegum einkennum vegna þess að hann gat ekki barist gegn þrýstingi frá Sovétríkjunum.

Sovétríkin hafa ekki einungis endurskipulagt herafla Kúbu og búið hann vopnum, heldur hafa þau líka sent hermenn til Kúbu. Í dag fljúga sovéskir hermenn könnunarflug yfir Kúbu í stað kúbanskra flugmanna sem sendir hafa verið til Afríku til þátttöku í bardögum; Sovésk herskip og kafbátar hringsóla í kúbönskum höfum, og sovéskir skriðdrekar, herbílar og sjálfdrifnar fallbyssur brölta um á kúbanskri jörð. Sovétríkin hafa safnað þessum liðsafla á Kúbu til að færa fram alheimsstjórnlist Sovétríkjanna, en ekki til að vernda "eyju frelsisins". Erlendir fréttaskýrendur segja að markmið Sovétríkjanna sé að fullkomna "hernaðarmátt sinn fyrir íhlutun í fjarlægum löndum" með því að nota kúbanska "útlendingaherdeild" til að berjast "í framlínunni á leiksviði þar sem sovétmenn eru ófúsir til að standa í sviðsljósinu". Þetta var fyllilega staðfest með atburðunum í Angóla, Zaire og á Afríkuhorninu, þar sem kúbanskir hermenn börðust í framlínunni meðan Sovétríkin stjórnuðu aðgerðum bak við tjöldin.

## EKKI LENGUR ÓHÁÐ RÍKI

Þessi eyja í Karibíska hafinu hefur með "samruna" sínum við Sovétríkin sýnt að hún er í bandalagi með Kreml á öllum sviðum Með því að ganga í Comecon gekk Kúba í formlegt efnahagslegt bandalag. Með því að senda hermenn til Afríku til að þjóna sem peð í sókn Sovétríkjanna gegn Afríku, á þann hátt sem ekkert ríki Varsjárbandalagsins hefur gert, staðfesti Kúba hernaðarsamvinnu sína við Sovétríkin. Stjórnarskrá Kúbu segir beint út að "Lýðveldið Kúba er hluti hins sósíalíska alheimssamfélags". Þetta er opinber yfirlýsing um að Kúba er bandamaður Sovétríkjanna. Afleiðing af þessu er að "samruni" Kúbu og Sovétríkjanna hefur valdið miklum ugg víða um heim, sérstaklega meðal óháðu ríkjanna.

Nýlega hafa fjölmiðlar margra landa bent á að "Kúba hefur á allan hátt misst rétt til að teljast til óháðra ríkja". Í fréttaskýringu þann 27. júní benti dagblaðið Elima í Zaire á eftirfarandi: Í Angóla, á Afríkuhorninu og í Zaire hefur íhlutunarstefna Kúbu í Afríku farið yfir þau mörk sem óháðu löndin geta þolað". 20. maí sl. birtist grein í mexikanska blaðinu Excelsior sem sagði að Kúba væri orðin fylgihnöttur Sovétríkjanna. Eins og forseti Sómalíu, Siad Barre, benti á fyrir stuttu síðan, er það stór móðgun við óháðu löndin að Kúba skuli vera meðlimur samtaka þeirra. Venezuelska blaðið El Universal benti á í grein þann 28. júní að "Bandalag Kúbu við Sovétríkin er greinilegt og algert. Raunveruleikinn sýnir að Kúba er "vopnaður armur" Kremlar í Afríku í dag, og mun verða það í öðrum heimsálfum síðar".




Alþýða Somalíu þekkir fjandmann sinn. "Sovétríkin eru sósíalísk í orði, en nasísk á borði". (Mynd : Hsinhua)

# Sovétríkin hagnast á innrásinni í Zaire

Þegar herir Katangamanna réðust inn í Zaire frá Angóla, skipulögðu þeir mikil skemmdarverk á kóbalt- og koparframleiðslu Zaire, en landið byggir afkomu sína að miklu leyti á þessari framleiðslu. Framboð á þessum vörum á heimsmarkaði minnkaði um 65% á næstu mánuðum eftir innrásina. Vegna minnkaðs framboðs hefur t.d. verð á hálfu kílói af kóbalti hækkað úr 8 Bandaríkjadollurum upp í 30 dollara.

Mörgum mánuðum fyrir innrásina keyptu Sovétríkin upp mikið magn af kóbalti á heimsmarkaðsverði, sem bendir til þess að þau hafi vitað fyrir um innrásina. Ekki nóg með það, heldur keyptu Sovétríkin kóbaltið á samningsbundnu verði, sem fylgir ekki hækkunum á heimsmarkaðsverði. Kóbalt er mikilvægt efni í hergagnaiðnaði.

# Sameining breskra marx-lenínista

Marx-lenínísk hreyfing hefur staðið veikum fótum í Bretlandi. Tvö samtök gengust fyrir sameiginlegum fundi undir yfirskriftinni "Baráttan fyrir sameiningu marx-lenínísku hreyfingarinnar í Bretlandi" þann 29 júní s.l. Þessi samtök eru Byltingarsinnuðu Kommúnista samtökin í Bretlandi (RCLB) og Kommúníska verkamannahreyfingin (CWM). Þessi fundur táknaði stórt skref í flokksbyggingunni í Bretlandi.

# CPML í Bandaríkjunum eins árs

Þann 11. júní héldu bandarískir kommúnistar upp á 1. árs afmæli flokks síns, Kommúnistaflokks Bandaríkjanna (m-l) (CPML) Flokkurinn gefur út málgagnið The Call/El Clarin vikulega. Hvert tölublað inniheldur greinar bæði á ensku og spænsku. Í leiðara 23. tölublaðs segir m.a. "Á fyrsta ári sínu hefur CPML gert allmikið til þess að hasla sér völl í fremstu víglínu í baráttu alþýðunnar fyrir sósíalisma, frelsi og framförum. Flokkurinn hefur sameinað hundruð marx-lenínista um hina byltingarsinnuðu stefnu og hann hefur verið í forystu í mikilvægri fjöldabaráttu víða um landið...

Mikilvægur hluti stuðnings við flokkinn er stuðningur við blaðkost hans. Sem málgagn flokksins hefur og mun The Call halda áfram að helga sig áframhaldi þessa starfs. Sérstalega mun The Call fylgja eftir staðfastri ákvörðun að byggja upp CPML og starfa að enn frekari sameiningu allra bandarískra marx-lenínista í einn, einstakan, einhuga flokk. Með aðstoð og stuðningi lesenda okkar mun okkur vissulega takast þetta."

Verkalýðsblaðið og EIK(m-l) senda CPML og The Call árnaðaróskir og óskir um enn frekari árangur í starfinu að sameina marx-lenínista í einn einhuga flokk, slíkt er forsenda enn stærri sigra.

## Fundur utanríkisráðherra óháðra ríkja:

# Mikil andstaða við erlenda íhlutun og yfirráð

Á fundi utanríkisráðherra óháðra ríkja í Belgrad í Júgoslavíu, voru samþykktar margar mikilvægar ályktanir, sem beinast gegn heimsvaldastefnu og yfirgangi risaveldanna, þrátt fyrir miklar mótsetningar innan Hreyfingar óháðra ríkja. Til að mynda var lögð rík áhersla á andstöðu hreyfingarinnar gegn hvers konar afskiptum erlendra aðila af innanríkismálum óháðra ríkja, í þeim tilgangi að skapa sér efnahagsleg og pólitísk yfirráð. Er þarna fyrst og fremst verið að vega að risaveldunum tveim, Bandaríkjunum og Sovétríkjunum, ásamt öðrum heimsvaldaríkjum. Lokaályktun fundarins undirstrikaði að óháðu ríkin munu standa saman gegn utanaðkomandi tilraunum til að sundra hreyfingunni.

Eins og áður greinir komu upp mótsetningar á fundinum . Stærstu mótsetningarnar komu upp vegna framferðis Kúbana í Afríku. Fulltrúar margra landa fordæmdu harðlega hernaðaríhlutun Kúbana í Afríku, og bentu á að Kúba væri ekkert annað en leppur Sovétríkjanna, og þar með væri vafasamt að telja Kúbu til óháðra ríkja. Þá settu mörg lönd sig upp á móti því að næsti fundur óháðra ríkja yrði haldinn í

framhald á baksíðu

## Sumarbúðir Verkalýðsblaðsins

# Fjölmennar og vel heppnaðar

greina heimsástandið, sjá hverjir eru vinir og hverjir eru óvinir.

VILLUR Í STARFI OG LÆRDÓMAR.

Eins og búast mátti við komu í ljós ýmsar villur í starfinu að undirbúningi sumarbúðanna og einnig í skipulagningu þeirra. Sumarbúðagestir komu með margar góðar ábendingar og tillögur um það hverning hægt væri að gera betur. Þannig stuðla miklu fleiri að því að framkvæmd Sumarbúða á næsta sumri verði betri.

Við munum leggja okkur fram við að læra af þeim villum sem gerðar voru að þessu sinni og nota gagnrýni og tillögur sumarbúðagesta til að leiðrétta skipulagið og undirbúningsstarfið fyrir sumarbúðir í framtíðinni.

BÚÐIRNAR SUNNANLANDS.

Búðirnar sunnanlands voru mjög fjölmennar. Fyrir hádegi á laugardag voru Sumarbúðir Verkalýðsblaðsins settar af formanni EIK(m-l), Ara T. Guðmundssyni. Því næst tóku hópar til starfa, en gestum búðanna hafði verið skipt í marga hópa, sem störfuðu bæði sem umræðuhópar og einnig var hinum margvíslegu verkefnum skipt niður á hópana, svo sem eldamennsku, uppvaski, þrifum, barnagæslu o.s.frv.

Góðar og nytsamar umræður urðu í hópunum og á veggblöðum fóru fram allgóðar umræður. Á kvöldvökum laugardag og sunnudag var mikil og góð dagskrá, sem bæði var fyrirfram undirbúin en einnig undirbúin af gestum búðanna á staðnum. Sem dæmi um menningarefni var söngur, þ.á.m. sunginn í fyrsta sinn textinn "Stofnum kommúnistaflokk fyrir árslok 1979", sem birtist í 13. tbl. Verkalýðsblaðsins með áskorun um að samið yrði lag við hann fyrir sumarbúðir. Einn gestanna hafði lag með sér og var það sungið við raust af gestum búðanna. Þá sögðu eldri börnin brandara, sem urðu til að létta skapið enn meira. Sýndar voru litskuggamyndir og sagt frá Kínaferð sendinefndar EIK(m-l) og haldið var uppboð, sem færði Október-forlaginu á annað hundrað þúsnud krónur. Það var margt fleira, sem flutt var á kvöldvökunum. Færeysku félagarnir frá OFML kenndu gestum búðanna færeyskan hringdans og voru dansaðir hringhringdansar og aðrir dansar fram á nótt.

GÓÐAR OG ÁNÆGJULEGAR BÚÐIR.

Í lok búðanna var dregið saman álit gestanna á búðunum. Það var samdóma álit að búðirnar hefðu heppnast mjög vel. Þetta voru ánægjulegir dagar.

EIK(m-l) og Verkalýðsblaðið geta verið stolltaf sumarbúðum Verkalýðsblaðsins 1978. Það komu margir í ár, en næsta ár verða ennþá fleiri og þá verða enn betri búðir, því lofum við.

BÚÐIRNAR NORÐANLANDS.

Á búðunum norðanlands var fremur fámennt, en góðmennt. Þóttu þær takast mjög vel, þrátt fyrir ýmis minniháttar skipulagsatriði sem fóru úr skorðum. Nokkuð vel tókst að tvinna saman leik, starf og pólitíska umræðu Er starfið á búðunum var metið í lokin komst einn sumarbúðasvo að orði, að hann hefði lært að lifa á nýjan hátt.

Á búðunum fóru fram margvíslegar íþróttaiðkanir og allt að 1000 metra hátt fjall var klifið. Á kvöldvökunum var flutt fjölbreytt efni, s.s. söngur, upplestur og leikþáttur um Horn Afríku, sem saminn var á staðnum Þá voru tveir hópar sem kváðust á, og loks sýndar litskuggamyndir með frásögnum frá Kína.

Sumarbáuðirnar norðanlands mátu starf sitt þannig, að það hafi verið rétt að hafa tvennar sumarbúðir á vegum Verkalýðsblaðsins, þrátt fyrir að norðanbúðirnar væru mikið fámennari en sunnanbúðirnar. Er von til þess að þessar búðir muni verða öllu starfi EIK(m-l) norðanlands mikil lyftistöng í framtíðinni.



## Viðtal við sumarbúðagest

# Þessar fyrstu búðir lofa góðu

Verkalýðsblaðið spjallaði við nokkra gesti sumarbúðanna. Við látum eitt samtalanna fylgja hér.

-- Hvað finnst þér um að vera hér á sumarbúðunum?

"Þetta er stórkostlegt. Ég hafði gert mér margar hugmyndir um svona búðir, en þær hugmyndir voru fátæklegar í samanburði við raunveruleikann. Það er náttúrulega margt sem mætti laga, en samt er þetta stórkostlegt. Það er t.d. gaman að sjá hvernig hægt er að tengja saman pólitíska umræðu, útilíf og íþróttir. Þetta verður þá miklu fjölbreyttara og skemmtilegra."



Lagt af stað í gönguferð . (Mynd : Vbl.)

-- Fórst þú í gönguferð?

"Já, ég fór í gönguna upp á fjallið. Þetta var nokkuð strembið, en það getur líka verið gaman að því. Í fjallaferðinni var fróður maður um jurtaríkið og sem dæmi tók hann smáskika og greindi fyrir okkur allar jurtirnar og það var líka einn sem þekkti sveitina og hann sagði frá bæjarnöfnum og nöfnum á vötnum og fjöllum o.s.frv. Svo gafst gott tækifæri til að ræða saman um pólitík á göngunni. Það hefði bara þurft að vera meira skipulagt, bæði gönguhraði og það að allir héldu hópinn alla leið, en á bakaleiðinni fóru þeir þolnustu á undan og er það mjög slæmt, ef eitthvað hefði komið fyrir. Þetta verður að laga fyrir næstu búðir eða gönguferðir."

-- Ætlarðu að koma á sumarbúðir næsta sumar?

"Já, örugglega. Þessar fyrstu búðir lofa góðu um framhaldið. En það er margt sem taka verður með í reikninginn til að gera svona búðir betri og fá enn fleiri til að koma. Ég veit kannski ekki sjálf hvað það er nákvæmlega en við ræddum um eitt og annað í mínum hóp. Það er annars mjög gaman að sjá hversu margir komu núna, af því að svona sumarbúðir eru alveg nýjar af nálinni og líka af því að það er þessi helgi með böll og skemmtanir út um allt. Ég veit um fólk sem fór annað af því að það var ekki alveg klárt á því hvað ætti að vera hér. Það er líka eitt sem ég vil minnast á, en það er framkoma búðagesta. Mér finnst hún vera ofsalega góð. Það hefur t.d. engin neysla áfengis verið hér, sem er raunar sjálfsagður hlutur, en líka oft brotið. Ég er semsagt ofsalega ánægð með þessar búðir og skora á framsækið fólk að láta sig ekki vanta næsta sumar."

## Október

# Október-hornið

Nils Holmberg heitir maður nokkur af sænsku kyni. Hann er í heiminn borinn árið 1902. Síðan hefur hann aflað sér meira en 50 ára reynslu innan kommúnísku hreyfingarinnar í Svíþjóð. 1926 vann hann í forystu Alþjóðasambands ungkommúnista í Moskvu. Hann var um 20 ára bil miðstjórnarmaður í kommúnistaflokki Svíþjóðar. Í fjölda ára átti hann sæti í borgarráði Gautaborgar. 1946 var hann kosinn á þing fyrir flokkinn. Í lok áratugsins starfaði hann um tveggja ára skeið í Kína.

Holmberg yfirgaf hinn gamla kommúnistaflokk árið 1967, þegar hann tók hægri-tækifærisstefnu og breytti nafni sínu í "Vinstriflokkurinn; kommúnistarnir". Síðan hefur hann - ásamt öðrum marx-lenínistum - tekið þátt í uppbyggingu nýrrar kommúnískrar hreyfingar. KFML voru stofnuð og 1973 var kommúnistaflokkurinn endurreistur undir nafninu SKP. Síðan hefur Holmberg verið þar í flokksforystu.

Október-búðin býður nú upp á rit eftir þennan mæta kommúnista í teim bindum. Það nefnist "Fredlig kontrarevolusjon" eða Friðsamleg gagnbylting. Í henni fjallar Holmberg af mikilli þekkingu um þróun hins gamla föðurlands sósíalismans, Sovétríkjanna fram á þennan dag. Í bókinni kemur fram mikið magn upplýsinga sem ekki hafa verið opinberaðar áður. Holmberg hefur enda kynnst þróun Sovétríkjanna af eigin reynd. Það er því ekki ofmælt að "Friðsamleg gagnbylting" sé ein besta úttekt sem gerð hefur verið á þróun þjóðskipulags í Sovétríkjunum. Styrkur hennar felst ekki aðeins í mikilli þekkingu höfundar, heldur og í gagnrýninni ransóknaraðferð hans. Það gerir honum kleyft að gagnrýna það sem miður fór á Stalíns-tímabilinu, svo og að sjá í gegnum glæpaverk nýju Kremlarkeisaranna.

"Friðsamleg gagnbylting" á því erindi til allra andheimsvaldasinna. Hún er líka gagnleg heimild þeim sem áhuga hafa á sögu Sovétríkjanna.

Komið, sjáið og kaupið.
(Frá Október)




Nýtt útgáfuefni frá Október.

Þrír bæklingar eru nýkomnir út hjá Október-forlaginu. Þessir bæklingar eru leiðari Dagblaðs alþýðunnar um hina þrjá heima, leiðari Zeri populit og söngvaheftið Bráðabirgðalög 1. Tryggið ykkur eintak af þessum bæklingum.

Októberforlagið




# Ávarp færeysku félaganna frá OFML

Á sumarbúðum Verkalýðsblaðsins sunnanlands voru staddir í boði EIK(m-l) félagar frá Oggjaframa marx-lenínistum í Færeyjum. Færeysku félagarnir ávörpuðu gesti sumarbúðanna og sögðu frá stéttabaráttunni í Færeyjum og vexti samtaka sinna. Verkalýðsblaðið birtir hér kveðjuávarp færeysku félaganna.

"EIK(m-l), Verkalýðsblaðið, félagar!

Vit skulu vegna OFML bera fram tökk fyrir innbjóðingina frá EIK(m-l) til sumarleguna 1978 hjá Verkalýðsblaðnum, sum nú er komin at enda. Hövudsstríði hjá EIK(m-l) í dag er at samansjóða kommunistisku rörsluna í Íslandi um flokksbygganina.




(Mynd : Vbl.)

OFML í Færoyum hevur sömuleiðis sett sær mál at stovna flokkin innan árslok 1979. Við skipaðu tí í ár fyri fyrstu sumarlegunni sem hevði flokksbyggingina sum hövudsparolu.

Gjögnum söguna alla hevur stríði hjá íslenska fólkinum staði sum fyrimyndarligt hetjustríð fyri Föroyska fólkinum, og hevur givi Föroyska fólkinum stórar lærdómar. Báðar tjóðirnar hava saman fært stríð móti koloniveldinum Danmark og fyri sjálvsavgerdamætti sína, her sérstakliga móti EEC (EBE-innsk. Vbl.) og NATO og fyri 200 fjóringa fiskimarkið.

Íslendska fólkið hevur vunnið stórar sigrar og í Föroyum kemur stríði at halda áfram, nú stríði fyri tjóðskaparligu kollveltingini alsamt herðist. Vit fara tí at hava lærdómarnar hjá íslandska fólkinum í huga og brúkar teir sum leiðbeining í komandi tíðum. OFML má brynja seg út at taka leiðsluna av hesum stríði á sama hátt sum EIK(m-l) fer at færa tjóðskaparligu kollveltingina í Íslandi fram móti tí sósíalistisku.

Tess vegna er tað av sérstakt stórum týðningi at vit útvíða vinarbandingi millim bæði félögini so hvort sum stríð okkara gongur fram.

Við hesum fara vit at heilsa EIK(m-l) við ynski um at stríði má ganga fram undir leiðbeining av marx-leninismanum og Mao Tsetungs hugsan fram móti kollvelting og sosialisma til verðuliga frigering av arbeiðandi fólkinum í Íslandi.

Livi vinalagi millum íslandska og Föroyska fólki!

Livi vinalagi millum EIK(m-l) og OFML!

VERKALÝÐSBLAÐIÐ
ÖREIGAR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

Málgagn EIK (m-l)
Gerist áskrifendur
Áskrift greiðist á gíró 12200-9

ÁBYRGÐARMAÐUR : ALBERT EINARSSON
1 árs áskrift: kr. 2500
1/2 árs áskrift: kr. 1500
Til útlanda: kr. 4000
Stuðningsáskrift: kr. 5000
ÓÐINSGÖTU 30, Pósthólf 5186,
Reykjavík, sími: 20212



# EIK(m-l) um DEILUR Í HEIMSHREYFINGU MARX-LENÍNÍSTA

Í blöðum og útvarpi hefur undanfarið verið fjallað lítillega um "deilur albana og kínverja". Ýmsir lesendur Verkalýðsblaðsins hafa spurt um afstöðu EIK(m-l) til þessa. Hér á eftir verður afstaða samtakanna skýrð stuttlega.

Rétt er að taka fram í upphafi að hér er ekki um að ræða einungis deilur milli albana og kínverja, heldur deilur innan heimshreyfingar marx-lenínista. Þessar deilur snúast um hvernig meta skuli og greina ástandið í heiminum og hvernig bregðast skuli við því. Þetta er höfuðatriðið þó fleira blandist inn í.

EIK(m-l) og meirihluti flokka og samtaka kommúnísku heimshreyfingarinnar – þar á meðal Kommúnistaflokkur Kína – byggja afstöðu sína til alþjóðamála á kenningu Maó Tse-tungs um þrjá heima, og hafa henni verið gerð nokkur skil áður í Verkalýðsblaðinu. Í fáum orðum er alþjóðaástandinu þá lýst á eftirfarandi hátt:

Fyrsti heimurinn eru risaveldin tvö, Bandaríkin og Sovétríkin. Þau keppa að heimsyfirráðum og undirbúa nú þriðju heimsstyrjöldina. Risaveldin tvö eru höfuðóvinur alþýðu heimsins. Sovétríkin eru þó hættulegri heimsfriðnum. Þau sækja nú fram á kostnað Bandaríkjanna sem eru á undanhaldi, sérstaklega eftir ósigurinn í Indó-Kína. Þetta þýðir þó ekki að Bandaríkin séu á skipulagslausum flótta undan Sovétríkjunum. Þvert á móti fara átökin milli risaveldanna vaxandi – t.d. í Afríku – og munu frekar fyrr en síðar leiða til styrjaldar milli þeirra.

Annar heimurinn eru auðvaldsríki Vestur- og Austur Evrópu, Kanada, Japan og Ástralía. Þessi auðvaldsríki eru að sjálfsögðu heimsvaldasinnuð og arðræna þróunarlönd um leið og þau verða fyrir ásælni risaveldanna tveggja. Því ber að styðja þær aðgerðir þessara ríkja sem beinast gegn risaveldunum, minnka áhrif þeirra eða hindra árásir þeirra.

Þriðji heimurinn eru þróunarlöndin í Asíu, Afríku og Suður-Ameríku ásamt sósíalísku ríkjunum. Mörg þessara ríkja hafa barist og berjast enn fyrir sjálfstæði sínu og sjálfræði gegn risaveldunum. Þau hafa styrkt samstöðuna sín á milli og koma nú meir fram sameinuð á alþjóðavettvangi, t.d. innan Sameinuðu þjóðanna. Þjóðfrelsishreyfingar berjast í mörgum þessara landa fyrir sjálfstæði og sósíalisma. Þriðji heimurinn er nú meginaflið í baráttunni gegn drottnunarstefnu risaveldanna og fyrir sósíalískri heimsbyltingu. Í baráttunni gegn risaveldunum geta ríki þriðja heimsins gert a.m.k. málefnabundið bandalag við ríki annars heimsins. Vegna vaxandi stríðshættu er það sérlega mikilvægt nú að mynda eins víðtæka samfylkingu og mögulegt er gegn risaveldunum.

Þetta er í stuttu máli kenningin um þrjá heima og hún nýtur stuðnings fleiri en eingöngu marx-lenínista. Tékkneski útlaginn og stjórnmálamaðurinn Jiri Pelikan segir að "kenning Maós um þrjá heima er raunverulegt vopn, því hún færir samfylkinguna út til allra landa sem berjast gegn sovéskum eða bandarískum heimsyfirráðum."

Minnihluti flokka og samtaka í heimshreyfingu kommúnista – þar á meðal Flokkur vinnunnar í Albaníu – hafna algerlega kenningunni um þrjá heima. Í fyrsta lagi telja þeir rangt að skipta heiminum í þrennt, heimurinn skiptist í tvennar herbúðir, herbúðir auðvaldsins og herbúðir sósíalismans. Í öðru lagi, að kenningin um þrjá heima leggi ofuráherslu á hættuna af Sovétríkjunum en láti Bandaríkin leika lausum hala, jafnvel að bandalag við þau sé mögulegt gegn Sovétríkjunum. Risaveldin séu jafn hættuleg. Í þriðja lagi sé allt tal um "þriðja heiminn" og um "þróunarlönd" út í hött. Hér sé hrært saman í einn graut fasískum ríkjum, taglhnýtingum risaveldanna og sósíalískum ríkjum. Kenningin líti þar með fram hjá stéttaandstæðum – móthverfunni milli borgarastéttar og verkalýðsstéttar.

En þessar röksemdir standast ekki þegar betur er að gáð. Þó móthverfan milli auðvaldsríkja og sósíalískra ríkja sé vissulega til staðar er slík skipting allt of einföld sem grundvöllur stjórnlistar og baráttuaðferðar kommúnista í heimi þar sem tvö risaveldi keppa um heimsyfirráð. Slík greining lítur framhjá fjölda mögulegra bandamanna í baráttunni gegn heimsvaldastefnu og stríði. Ásökunin um bandalag við Bandaríkin er gróf, vísvitandi fölsun. Þegar Sovétríkin eru sögð hættulegri á meimsmælikvarða, þýðir það ekki að Bandaríkin séu hættulaus. Ef svo væri þyrftum við ekki svo mjög að óttast nýja heimsstyrjöld! Þegar litið er á heiminn í heild er ljóst að Sovétríkin auka áhrif sín á kostnað Bandaríkjanna. Sósíalheimsvaldastefna Sovétríkjanna er því meginuppspretta nýrrar styrjaldar. Það ræðst svo af sérstæðum hvers lands hvort risaveldið er því hættulegra eins og nú standa sakir. T.d. stafar Íslandi meiri ógn af Bandaríkjunum nú, þó Sovétríkin reyni að auka áhrif sín.

Að neita tilvist þriðja heimsins er einnig gróf villa. Nýfrjáls ríki, nýlendur og hálfnýlendur sem berjast fyrir að varðveita eða ná þjóðlegu, efnahagslegu og pólitísku sjálfstæði mynda þriðja heiminn auk sósíalísku ríkjanna. Þessi ríki eru skemmra á veg komin í iðn- og tækniþróun en auðvaldsríki annars heimsins og verða fyrir hörðustum árásum heimsvalda- og drottnunarstefnu risaveldanna. Stéttabaráttan er nú hörðust í þriðja heiminum – barátta alþýðunnar fyrir þjóðlegu sjálfstæði og sósíalisma. Þess vegna er alþýða þriðja heimsins megindrifkraftur heimsbyltingarinnar og myndar ásamt verkalýð fyrsta og annars heimsins forystulið í baráttunni gegn heimsvaldastefnunni. Þetta er ekki að "líta framhjá stéttaandstæðum", heldur að leggja þær til grundvallar nákvæmri greiningu á alþjóðaástandinu. Greiningu, sem er nauðsynlegur grundvöllur réttrar stjórnlistar og baráttuaðferðar – að mynda eins víðtæka samfylkingu og mögulegt er gegn heimsvaldastefnu og stríðsundirbúningi risaveldanna.

Þessar deilur í heimshreyfingunni sem hér er lýst, eru ekki ný til komnar. Ágreiningurinn skerptist á hinn bóginn þegar Enver Hoxha, formaður Flokks vinnunnar í Albaníu, gagnrýndi kenninguna um þrjá heima opinskátt í skýrslu sinni á 7. þingi FVA í nóv. '76. Deilurnar hörðnuðu þó enn frekar í fyrra, en 7. júlí '77 birti "Rödd alþýðunnar", málgagn FVA, leiðara undir yfirskriftinni "Fræðikenning og starf byltingarinnar". Þar er ráðist á kenninguna um þrjá heima og hún harðlega fordæmd.

Aðrir flokkar hafa gengið enn lengra í árásum sínum. Fordæma m.a. núverandi leiðtoga Kommúnistaflokks Kína og kínverska alþýðulýðveldisins sem endurskoðunarsinna sem séu að endurreisa þar auðvaldsskipulagið. Samtímis héldu þeir uppi vörnum fyrir klíku "fjórmenninganna". EIK(m-l) höfðu samskipti við einn þessarra flokka – Kommúnistaflokk Þýskalands (m-l) – KPD/ML – en því sambandi hefur nú verið slitið, enda leiddu viðræður milli samtakanna í ljós að grundvöllur samskiptanna var brostinn. Um þetta má lesa í Rauðliðanum 1. tbl. '78.

Kommúnistaflokkur Kína gerði grein fyrir afstöðu sinni í leiðara í Dagblaði alþýðunnar 31. okt. '77 undir yfirskriftinni "Kenning Maó formanns um að greina á milli þriggja heima er mikilvægt framlag til marx-lenínismans".

EIK(m-l) gagnrýna þau vinnubrögð að hefja opinbera umræðu um deiluefni áður en reynt hafði verið til þrautar að ná einingu inn á við. Árásirnar á kenninguna um þrjá heima, sem er grundvöllur afstöðu EIK(m-l) til alþjóðamála, og á bræðrahreyfingar, jafngilda árásum á EIK(m-l). Deilurnar í heimshreyfingu kommúnista eru vissulega alvarlegar og munu án efa veikja hreyfinguna tímabundið. Samtökin fylgjast náið með framvindu mála og munu skýra frá henni jafnóðum í fullvissu þess að rétt afstaða sigrar að lokum.

Þá má að endingu geta þess að Október-forlagið hefur gefið út greinarnar "Fræðikenning og starf byltingarinnar" og "Kenning Maó formanns um að greina á milli þriggja heima er mikilvægt framlag til marx-lenínismans". Lesendur Verkalýðsblaðsins eru hvattir til að kynna sér þetta efni, líta við á Óðinsgötu 30 í bókabúð forlagsins þar sem hægt er að fá margvíslegt efni um alþjóðaástandið .



# 21. ágúst 1968-1978
# Sovétríkin út úr Tékkoslóvakíu!




## STEFNUGRUNDVÖLLUR 21. ÁGÚST - HREYFINGARINNAR

1. Heri Sovétríkjanna burt frá Tékkóslóvakíu!
2. Styðjum frelsisbaráttu Tékka Slóvaka!
3. Gegn stríðsundirbúningi risaveldanna – Bandaríkjanna og Sovétríkjanna!
4. Gegn allri heimsvaldastefnu – Ísland úr NATÓ – herinn burt!

Auk þess setur hreyfingin fram eftirfarandi vígorð til áminningar um heimsvaldaeðli Sovétríkjanna:

1. Gegn íhlutun Sovétríkjanna í Afríku!
2. Styðjum þjóðfrelsisbaráttu Erítreu!
3. Styðjum Charta 77 – styðjum lýðréttindabaráttu í Austur-Evrópu!
4. Gegn réttarofsóknum á hendur Helsinki-hópnum!
5. Styðjum varnarnefnd verkamanna í Póllandi!
6. Lifi minning Ian Palach!
7. Gegn rányrkju sovéska flotans á Grænlandsmiðum!
8. Sovétríkin burt frá Svalbarða!

## Mikil andstaða

framh. af bls. 6

Havanna á Kúbu, eins og ráð var fyrir gert. En til að varðveita einingu samþykkti fundurinn að næsti fundur skuli vera á Kúbu, og að nefnd verði sett á laggirnar til að undirbúa hann og tryggja það að Kúba hagnýti sér það ekki.

Maiera, utanríkisráðherra Kúbu, reyndi að verja sig gegn þessari hörðu gagnrýni með fullyrðingum eins og að "Kúba væri að uppfylla sínar alþjóðlegu skyldur". Hann gekk meira að segja svo langt að segja að það lægju vissar sögulegar ástæður fyrir íhlutun í Afríku, Kúbanir hafa nefnilega tekið upp á því að snúa til baka til landsins, sem forfeður þeirra komu frá sem þrælar. Þetta sýnir hversu erfiðlega Kúbanir eiga með að réttlæta hernaðaríhlutun sína í Afríku.

Af öðrum mikilvægum niðurstöðum má nefna að Arabalöndin komu því til leiðar, að lokaályktunin leggur til að Sameinuðu þjóðirnar boði til sérstaks alsherjarráðsfundar, sem fjalli um andstöðuna gegn Ísrael og taki afstöðu til brottrekstrar síonistaríkisins úr SÞ. Þá voru kynþáttamisréttisstjórnirnar í S-Afríku og Ródesíu, ásamt ísraelskri hersetu á arabískum landsvæðum, fordæmdar. Fundurinn lýsti einnig yfir stuðningi við friðsamlega sameiningu Norður- og Suður-Kóreu.

Tillaga Kampútseu um að Víetnam yrði vikið úr Hreyfingu óháðra ríkja var lögð undir nefnd til lausnar, þar sem hún var talin of umfangsmikil til að utanríkisráðherrafundur sem þessi væri fær um að taka til hennar afstöðu án betri ígrundunar.